★ VERKALÝÐS-BLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

**HINIR NÝJU HERRAR Í KREML.** sjá bls.4

**Hvar eru 4 milljónirnar, Karl?** sjá baksíðu

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (M-L) 2. árg. 10. Tbl. okt. 1976 100 kr.

# FORYSTA ALÞÝÐUBANDALAGSINS VINNUR GEGN MJÓLKURBÚÐAKONUM!

ÞEIR ERU ORÐNIR FÁIR SEM TRÚA ÞVÍ ENN AÐ ALÞÝÐUBANDALAGIÐ SÉ FLOKKUR VERKALÝÐSINS EÐA BERJIST FYRIR VERKALÝÐINN. HVERS VEGNA? VERKALÝÐSAFSTAÐA ALÞÝÐUBANDALAGSINS ER ORÐAGJÁLFRIÐ EITT. HVAR ER ANNARS VERKALÝÐSSTARFIÐ? JÚ, ÞAÐ ER ATKVÆÐASNAPIÐ EITT.

NÚ SÍÐAST HEFUR ALÞÝÐUBANDALAGIÐ OG MÁLGAGN ÞESS, ÞJÓÐVILJINN, AFHJÚPAÐ RAUNVERULEGA AFSTÖÐU SÍNA - GEGN VERKAFÓLKI - Í MJÓLKURBÚÐAMALINU. ÞAR ER MEÐ ÖLLUM RÁÐUM REYNT AÐ SUNDRA OG EYÐILEGGJA SAMSTÖÐU VERKAKVENNANNA. ÞETTA BER AÐ FORDÆMA!

Í upphafi, þegar Samtökin gegn lokun mjólkurbúða voru stofnuð, dylgjaði Þjóðviljinn þar væri farið á bak við stjórn ASB. Blaðamanni Þjóðviljans hafði þó verið skýrt rækilega frá því, aðreynt hefði verið til þrautar að fá samstarf við stjórn ASB. Þegar Þjóðviljinn var beðinn um að birta leiðréttingu við þessa frétt, var svarið nei.

Í Þjóðviljanum 27. þ.m. birtust nokkrar línur um kröfugöngu Samtakanna gegn lokun mjólkurbúða og samstarfsnefndar ASB, undir fyrirsögninni: "Of seint". Þarna tuggði Þjóðviljinn sömu tuggu og allir andstæð-

frh. bls. 2




Kröfugangan sem Samtökin gegn lokun mjólkurbúða og starfsnefnd ASB stóðu fyrir 25. sept. s.l. kemur niður Njálsgötuna. Kröfur göngunnar voru: 1. Enga lokun mjólkurbúða! 2. Gegn fjöldauppsögnum! 3. Full atvinna allra - fyrstu mannréttindi! 4. Baráttu gegn árásum ríkisvaldsins á verkalýðinn! 5. Niður með nýju vinnulöggjöfina - verjum samninga - og verkfallsréttinn! (Mynd : VERKALÝÐSBLAÐIÐ)

ÁLVER VIÐ EYJAFJÖRÐ:

## Samningamakk bak við tjöldin

ÞAÐ MUN NÚ VERA ÁKVEÐINN HLUTUR EFTIR SAMKOMULAGI ÍSLENSKRA STJÓRNVALDA OG NORSKRA RISAFYRIRTÆKISINS NORSK HYDRO (STÆRSTA AUÐFYRIRTÆKI NOREGS, Á EFTIR RÍKINU) AÐ ÁLVERKSMIÐJAN SKULI RÍSA VIÐ EYJAFJÖRÐ INNAN SKAMMS Þ.E. EFTIR TVÖ TIL ÞRJÚ ÁR.

Samkvæmt beiðni Norsk Hydro hefur iðnaðarráðuneytið falið Rannsóknarstofnun landbúnaðarins að gera einhvers konar "undirbúningsrannsóknir" á gróðri áður en farið er í framkvæmdir. Álvershöfðingjarnir ætla Rannsóknarstofnuninni það hlutverk að hún ábyrgist fyrir þjóðinni að hinar blómlegu landbúnaðarsveitir Eyjafjarðar bíði ekki alvarlegt tjón af uppkomu álversins við túnfótinn. Það er athyglisvert að mál þetta virðist vera nokkurnveginn fullfrágengið að tjaldabaki áður en það kemur í heild fyrir almenningssjónir - og ennþá hefur það ekki verið nefnt á Alþingi svo vitað sé.

Samningamakk.

Menn frá Norsk Hydro komu til Íslands vorið 1975 til funda við íslenskt peningavald, m.a. til Akyreyrar að hitta efnahagsstórmenni og bæjaryfirvöld þar. Þá hétu áætlanir þessar lauslegar "viðræður", en það kom fram að samningamakk hafði þá staðið um tíma fyrir luktum dyrum. Norðmennirnir mæltu eindregið með Eyjafirði sem byggingarstað og Valur Arnþórsson og Bjarni Einarsson lýstu í blöðum sínu jákvæða áliti á "hugmyndinni".

frh. bls. 7

RÖNTGENTÆKNAR:

## Hróplegt ranglæti í launamálum

RÖNTGENTÆKNAR HAFA ÁTT Í HARÐRI BARÁTTU FYRIR LEIÐRÉTTINGU MÁLA SINNA AÐ UNDANFÖRNU. VERKALÝÐSBLAÐIÐ HAFÐI VIÐTAL VIÐ ARNGRÍM HERMANNSSON TRÚNAÐARMANN RÖNTGENTÆKNA Á LANDSSPÍTALANUM:

Vbl.: Hvað varð til þess að röntgentæknafélagið hóf baráttu fyrir sínum kjaramálum?

AH: 197o er einn starfandi röntgentæknir á Landsspítalanum. Hann semur við fjármálaráðuneytið og þeim semst

Frh. bls. 5



Arngrímur Hermannsson trúnaðarmaður röntgentækna á Landsspítalanum. (Mynd: Vbl.)

## Barnakennarar í kjarabaráttu

Eins og komið hefur fram í fréttum, hyggja barnakennarar á aðgerðir, til þess að leggja áherslu á þær kröfur að misrétti sem nú viðgengst í launamálum þeirra verði leiðrétt.

Til þess að fá nánari upplýsingar um kjarabaráttu kennara, leitaði VERKALÝÐSBLAÐIÐ til Sigrúnar Guðmundsdóttur barnakennara í Vogaskólanum.

frh. bls. 2

**Vinnandi alþýða velur nýjar leiðir**
Sjá leiðara




Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

# Vinnandi alþýða velur nýjar leiðir

ASÍ þing framundan.

Línurnar skýrast æ meir í kjarabaráttunni. Sífellt fleiri sjá það, að forysta verkalýðshreyfingarinnar, er ekki í höndum verkafólks, heldur manna sem standa við hlið atvinnurekenda og ríkisvalds í baráttunni.

Árásir ríkisvalds og atvinnurekenda verða sífellt harðari. Ekkert lát er á verðhækkunum á lífsnauðsynjum, bráðabirgðalög sett gegn sjómönnum og fyrir alþingi liggur frumvarp að nýrri vinnumálalöggjöf sem stórskerðir samnings- og verkfallsréttinn. Viðbrögð forystunnar eru í besta falli máttlausar yfirlýsingar. Að standa fyrir aðgerðum dettur henni ekki í hug, enda gæti það skaðað stöðu hennar við bitlingajötu ríkisvaldsins.

Aðgerðir sjómanna fyrir vestan, barátta starfsfólks sjónvarpsins og fleiri opinberra starfsmanna og barátta starfsstúlkna í mjólkurbúðum, sýnir að fólk gerir sér það æ betur ljóst, að það er baráttan en ekki samvinnan sem dugir gegn atvinnurekendum, eins og forystan stendur fyrir.

ASÍ-þingið sem haldið verður nú í nóvember á að taka afstöðu til tillögu að stefnuskrá fyrir ASÍ og leggja línurnar fyrir næstu samninga.

Stefnan undanfarin ár hefur verið í átt til síaukinnar miðstýringar, samvinnu við ríkisvaldið og samninga um svo kallaðar hliðarráðstafanir, í stað kauphækkana. ASÍ forystan hefur staðið fyrir og stutt þessa stefnu og mun án efa berjast fyrir að þessi atriði verði a.m.k. að hluta til bundin í stefnuskrá.

Jafnframt mun hún reyna að sölsa undir sig samningsvald hinna einstöku félaga fyrir næstu samninga. Það er ljóst eftir reynslu seinustu ára, að stóru samflotin og miðstýringin hafa aðeins leitt til bölvunar, í kjarabaráttunni. Eftir að samflotin urðu regla, hafa fáir sigrar unnist í kjarabaráttunni.

Vinnandi fólk verður þegar í stað að hefja undirbúning til að koma í veg fyrir að samningsvaldið fari í hendur ASÍ-forystunnar.

Verjum samningsréttinn!

Til baráttu gegn samvinnu verkalýðs forystunnar við atvinnurekendur og ríki!

# Sameining marx-lenínista

Með harðnandi baráttu og æ dýpri kreppu hins kapitaliska samfélags, eykst nauðsynin á sameiningu marx-leninista og stofnun raunverulegs - kommúnísks flokks.

Eitt höfuðskilyrði flokksstofnunar er, að eining sé um grundvallaratriði marx-lenínismans. Þær raddir heyrast oft frá róttæku fólki, "að það verði að sameina alla þessa hópa vinstra megin við Alþýðubandalagið". Allar slíkar vonir eru tálvonir, því þess háttar "flokkur" yrið óstarfhæfur vegna innri ágreinings.

Það var einmitt höfurorðsökin fyrir því, að EIK(m-l) hafnaði flokkstilboði KSML fyrir u.þ.b. ári síðan, að KSML hafði ekki gert upp við endurskoðunarstefnuna, og vildi leysa allmörg ágreiningsmál um grundvallaratriði marx-lenínismans eftir flokksstofnun.EIK(m-l) hafði alltaf þá afstöðu, að um grundvallaratriði marx-lenínismans væri ekki hægt að gera neina málamiðlun.

KSML voru í upphafi hálftrotskíisk samtök og stefna þeirra kom út sem skemmdarverkastefna gagnvart alþýðubaráttunni, (s.s. Víetnam-nefnd, herstöðvaandstöðunni, og í landhelgismálinu) vegna einangrunarhyggju þeirra, en ljóst er, að tvær stefnur þ.e.a.s. endurskoðunarstefna og marx-lenínisminn hafa barist innan samtakanna. Árangur af þeirri baráttu og marx-lenínísk stefna EIK(m-l) hefur leitt til þess, að ýmsum stefnuskrárbundnum atriðum "vinstri"endurskoðunarstefnu hefur verið kastað, en marx-lenínísk stefnuatriði tekin í staðinn, að mestu samhljóða EIK(m-l). Þetta hefur að sjálfsögðu haft áhrif á starf samtakanna út á við, sumpart til bóta.

En meðan KFÍ/ML hafnar ekki sínum fyrra grunni sem endurskoðunarsinnuðum og afmáir endurskoðunarsinnuð atriði úr stefnuskrá sinni, hefur hann ekki hafnað endurskoðunarstefnunni.

EIK(m-l) skora á félaga KFÍ/ML og aðra sem standa marx-lenínismanum nærri að taka sameiningargrundvöllinn til umræðu. Hafni KFÍ/ML grundvellinum, hafnar hann marx-lenínismanum, og skipar sér á bekk með endurskoðunarsinnum, sem frá stafar mesta hættan að framsækinni baráttu á Íslandi.

---

Þann 20. október n.k. verður haldinn almennur fundur með 2 fulltrúum frelsishreyfingarinnar PAC í Azaníu (Suður-Afríku). Að þessum fundi standa: Azaníunefnd EIK(m-l), Rauð æska og KFÍml. Fundarstaður og tími auglýst nánar í blöðum og útvarpi.

Jafnframt er hafin söfnun til PAC. Sendið framlög á gíró 12200.

Félagar og stuðningsfólk Einingarsamtaka kommúnista og áskrifendur VERKALÝÐSBLAÐSINS eru hvattir til að mæta á fundinn með azanisku félögunum og kynna sér af eigin raun baráttuna í Azaníu.

# MIKIL ÓÁNÆGJA MEÐ STJÓRN ASB

Rætt við Lilju Kristjánsdóttur

Kosning fulltrúa á þing félags afgreiðslukvenna í brauða- og mjólkurbúðum (ASB) verður þann 23.-24. október að Skólavörðustíg 16. Kosið verður um 2 lista, annan borinn fram af stjórn og trúnaðarmannaráði félagsins, en hinn af Lilju Kristjánsdóttur og fleirum. VERKALÝÐSBLAÐIÐ hafði tal af Lilju nýlega, og spurði hana frétta af baráttu þeirra mjólkurbúðakvenna.

-Ég held að óhætt sé að segja að það sé almenn óánægja með stjórn ASB, sagði Lilja.

-Við höfum orðið varar við þessa óánægju fyrr en þó best þegar við leituðum eftir stuðningi við framboðslistann okkar. Við fengum á augabragði 49 nöfn til stuðnings listanum okkar, en þurftum aðeins 27. Listi stjórnarinnar þarf hins vegar ekki að hafa nein nöfn til stuðnings.

Vbl: Ert þú ánægð með fyrirkomulag og framkvæmd kosningarinnar?

-Nei, ég er það ekki. Það er greinilega allt gert til þess að brjóta konurnar sem standa að listanum okkar niður. Einhver skrekkur virðist þó vera í forystuliði ASB og ASÍ fyrir þessar kosningar. Til dæmis er dregið fram á síðasta dag að kjósa, til þess að forystuliðinu gefist betri tími til að vinna. Gert er ráð fyrir því, að hlutlausir aðilar annist þessa kosningu - það er umsjón með framkvæmd hennar. "Hlutleysið" í þessu tilfelli það, að kjörnefndin er skipuð af stjórn ASB og formaður hennar af ASÍ! Formaður kjörstjórnar í þessu tilfelli, er Halldór Björnsson. Hann er í forystuliði ASÍ og liðsmaður Alþýðubandalagsins. Við getum ómögulega séð hvernig maðurinn sá á að geta verið hlutlaus aðili, enda er það líklega ekki ætlunin.

Við höfum margar sannanir fyrir því að aðilar í forystu Alþýðubandalagsins og stærstu verkalýðsfélaganna hafa gengið á milli áhrifamikilla aðila í verkalýðshreyfingunni og varað þá við að styðja baráttu okkar!

Vbl: Hefur ASB-forystan barist gegn virkri baráttu mjólkurbúðakvenna í málinu?

-Já, ég get nefnt sem dæmi, að almennur fundur í ASB kaus nefnd sem skrifaði verkalýðsfélögum og bað um stuðning þeirra við kröfugöngu og innifund okkar á dögunum. Í nefnd þessari voru: Sigfríður Sigurjónsdóttir, Elínbjörg Sigurðardóttir, Elísabet Sigurðardóttir, Hallveig Einarsdóttir formaður ASB og Lilja Kristjánsdóttir. Bréfin voru undirrituð af öllum nefndarkonum, einnig Hallveigu. Að kvöldi sama dags (2 dögum fyrir aðgerðir samtakanna gegn lokun mjólkurbúða) var svo haldinn stjórnarfundur í ASB. Þar var m.a. samþykkt að stjórnin tæki ekki þátt í aðgerðum og jafnframt voru önnur verkalýðsfélög vöruð við að styðja þær!

Hallveig formaður lét ekki sitja við orðin tóm, heldur virkjaði hún stjórnarapparöt Alþýðubandalagsins og ASÍ-forystunnar til að hringja í fulltrúa 39 verkalýðsfélaga í þeim tilgangi að vara þá við okkur og aðgerðum okkar.

Mér þætti svo fróðlegt að vita í beinu framhaldi af þessu, hvort ætlun þeirra í stjórn félagsins sé, að nota aðstöðu ASB (skrifstofu félagsins og fleira) í áróðursherferð þeirra fyrir kosningarnar.

Vbl: Hvernig leggjast svo kosningarnar í þig, Lilja?

-Ég sagði áðan að mikil óánægja ríkti innan félagsins með stjórn þess. Þetta þýðir hins vegar ekki það, að við megum vera of sigurvissar í kosningum þeim sem framundan eru. Við verðum þvert á móti, að vinna vel allan tímann fram til kosninga.

Ég vil svo í lokin skora á félagskonur að láta í sér heyra sem fyrst. Þær geta haft beint samband við okkur, eða hringt í síma 36513.

Við ætlum að sigra þessar kosningar, en það kostar líka mikið og gott starf!



Elínbjörg Sigurðardóttir flytur ræðu á innfundinum gegn lokun mjólkurbúða 25. sept. s.l. ásamt fundarstjóra Pétri Péturssyni

# Styðjum baráttulista mjólkurbúðakvenna

Fram að kjördögum í ASB-kosningunum, mun framboðslisti Lilju Kristjánsdóttur, Elísabetar Sigurðardóttur, Heru Guðjónsdóttur (og varamannanna: Sigfríðar Sigurjónsdóttur, Elínbjargar Sigurðardóttur og Guðbjargar Guðnadóttur) veita upplýsingar um stefnu sína og baráttumál í síma 36513.

Báða kosningadagana, 23. og 24. október, verður hægt að hringja í síma 36513 og leita eftir aðstoð, svo sem bílfari á kjörstað og fleira.

Kosið verður að Skólavörðustíg 16. Stuðningskonur lista Lilju Kristjánsdóttur og fleiri: Hafið þegar samband við frambjóðendur - það léttir starfið fyrir kosninguna!

# Forysta ...

framhald af forsíðu

ingar baráttunnar, nefnilega þá að ekki þýði að gera eitt eða neitt. Betra væri að leggja upp laupana þegjandi og hljóðalaust. Þjónar þessi afstaða verkalýðnum? Nei, hún þjónar aðeins atvinnurekendum og verkalýðsforystunni.

Mjólkurbúðakonurnar spyrja: hvers vegna barðist þessi mikli "verkalýðsflokkur" ekki við okkar hlið? Hvers vegna gat "kvenréttindakonan" í þingliði Alþýðubandalagsins ekki beitt sínum áhrifum þegar frumvarpið fór þar um sali? Jú, svarið er einfaldlega það, að Alþýðubandalagið er ekki verkalýðsflokkur. Það vill ekki vera það og getur það ekki.

Þetta er staðreynd, sem æ fleiri baráttusinnar í röðum verkalýðs eru farnir að sjá.



Sigrún Gunnarsdóttir

# Barnakennarar í kjarabaráttu

framhald af forsíðu

Vbl: Sigrún, hver eru helstu baráttumál barnaskólakennara?

SG: Við viljum fyrst og fremst leiðrétta misræmið á milli launa þeirra kennara sem kenna í 1.-6. bekkjum grunnskólanna og þeirra sem kenna í 7.-9. bekkjum. Barnakennarar vilja fá sömu laun fyrir sömu menntun.

Við urðum að hlíta útskurði kjaradóms í sumar, líkt og aðrir ríkisstarfsmenn. Nú eru laun okkar ákeðin samkvæmt ýmiss konar mati, svo sem námsmati, starfsaldri og framhaldsnámi - námskeiðum og þess háttar. Námsmatið var látið ganga aftur fyrir sig, á þann veg, að kennari sem kominn var í hæsta launaflokk fyrir kjaradóm, nær ekki samsvarandi launaflokki í dag.

Í hvaða þjóðfélagshópi þekkist það að þótt námskröfur breytist og aukist, þá séu þeir sem fyrir eru, látnir gjalda þess.

Vbl: En nú er vinnutími margra kennara í dreifbýlinu annar, en t.d. kennara í Reykjavík og öðrum kaupstöðum og bæjum. Hvað er um þá að segja?

SG: Víða úti á landi eru ráðnir kennarar í 8 mánaða starf - jafnvel í 7 mánaða starf. Þetta stafar af því að viðkomandi sveitarfélög hafa ekki boðið nemendum sínum upp á lengri skólavist, sem þó hlýtur að breytast með framkvæmd grunnskólalaganna. Kennarar í 8 mánaða skólum, sem eru félagar í Sambandi ísl. barnakennara, fá lægri laun sem nemur 1 mánaðarlaunum, en félagar í Landssambandi framhaldsskólakennara (LSFK). Þetta gildir einu þó félagar í SÍB og LSFK vinni saman við skóla. Sá í SÍB er alltaf með lægri laun.

Vbl: Eitthvað að lokum?

SG: Það virðast allir viðurkenna ábyrgð og mikilvægi kennara í þjóðfélaginu, en um fáar stéttir heyrir maður talað hraklegar í flestum fjölmiðlum, og jafnvel meðal okkar eigin bandamanna innan BSRB, þegar launamál ber á góma. En við viljum leiðrétta þetta launamisrétti sem að framan greinir. Auk þess er svo auðsætt, að þegar verðlag hækkar eins ört og verið hefur, þá rýrnar gildi launa okkar. Við erum því ekki einu sinni í sömu sporum nú, hvað kaupmátt snertir, heldur höfum við dregist aftur úr.



utan úr heimi utan úr heimi utan úr heimi utan úr heimi utan úr heimi utan úr heimi

# MAO TSETUNG

Í DAG ER MAÓ HYLLTUR UM HEIM ALLAN - JAFNVEL Í BORGARAPRESSU VESTURLANDA. "KENNING MAÓS VAR GÓÐ - FYRIR KÍNA" SEGJA BORGARARNIR. EN BORGARAPRESSAN GETUR AUÐVITAÐ HVORKI SKILIÐ NÉ SKÝRT ÞESSA KENNINGU, ÞVÍ HÚN ER VOPN VERKALÝÐS OG ALLS VINNANDI FÓLKS ALLRA LANDA Í BARÁTTU GEGN ARÐRÁNI OG KÚGUN. KENNING MAÓS TSE-TUNGS ER MARX-LENÍNISMINN Á OKKAR TÍMUM - ÆÐRA STIG HINS VÍSINDALEGA SÓSÍALISMA. HÉR VERÐA RAKTIR FÁEINIR HORNSTEINAR Í KENNINGU FÉLAGA MAÓS TSE-TUNGS:

Mao hefur tengt lögmál marx-lenínismans og þá reynslu sem kommúnistaflokkurinn og alþýðan í Kína öðlast í baráttunni fyrir sósíalisma og kommúnisma. Í þeirri baráttu hefur marx-lenínisminn þróast og kenning Maos er orðin hin byltingarsinnuðu félagsvísindi okkar tíma fyrir allt baráttufólk og vinnandi alþýðu.

"Lærdómurinn sem við drögum af kínversku byltingunni og kenningum Maos Tsetungs hefur gert okkur það mögulegt að skilja betur kenningar þeirra Marx, Engels, Leníns og Stalíns og ná miklum árangri. Víetnamska þjóðin verður að minnast þessa, og sýna þakklæti sitt".

Þannig skrifaði Ho Chi Minh í pólitískri skýrslu til Verkamannaflokks Víetnams á 2. flokksþinginu árið 1951. Á þeim tíma geysaði enn stríð við frönsku nýlendukúgarana.



## Samfylkingin

Að sameina fjöldann til að frelsun landa, svo sem Kína, Víetnam, Kambódíu og fleiri landa. Meginkenningin í ritum Maós um alþýðustríðið er sú, að óvinurinn sé léttvægur í stjórnlistarlegu tilliti, en í tilliti til baráttumarkmiðsins verði að taka andstæðinginn alvarlega. Í hverjum bardaga verður að hafa undirtökin. Að sigra óvininn skref fyrir skref - það er hin eina rétta leið. Að þvinga óvininn til að dreifa liðsaflanum, að hörfa þegar hann sækir, að sækja þegar hann hörfar. Og þá, eftir því sem styrkur fólksins vex, þá mun styrkur óvinarins snúast í veikleika. Það sama gildir um allt heimsvaldakerfið. Það líður undir lok. Þetta gerist allt eins þó að það virðist sterkt í dag. Sagan hefur kennt okkur sannleik þessa.

## Fræðikenning og starf

Mao hefur lagt á það megináherslu, að fræðikenningin og pólitískt starf sé nátengt. Fræðikenningin eigi að þjóna starfinu, ekki öfugt.

"Hvaðan koma réttar hugmyndir? Falla þær af himnum ofan? Nei. Eru þær meðfæddar í huganum? Nei. Þær spretta upp af þjóðfélagslegu starfi og koma hvergi annars staðar frá. Þær spretta upp úr þrenns konar starfi: baráttunni á framleiðslusviðinu, stéttabaráttu og vísindalegum tilraunum".

Menn verða að skilja samhengi hlutanna. "Án rannsóknar - enginn réttur til að tala", sagði Mao Tsetung.

## Fjöldalínan

Línan sem Mao lagði var það sem við köllum fjöldalína. Traust á alþýðunni gengur eins og rauður þráður gegn um alla hans kenningu.

"Alþýðan og hún ein er hreyfiaflið við sköpun veraldarsögunnar. Hinar raunverulegu hetjur eru almúgafólk, en sjálfir erum vér oft barnalegir og fávísir".

Þetta þýðir, að kommúnistaflokkur verður að vera í sterkum tengslum við alþýðuna til þess að geta leitt baráttu hennar. Mao orðaði þannig starfsaðferð

frh. bls. 7

# MESTI MARX-LENÍNISTI VORRA TÍMA

## Alþýðustríðið

Fyrir byltingarsinna heimssins eru kenningar Maos um alþýðustríðið traustur vegvísir. "Hver kommúnisti verður að skilja sannleik þess, að pólitískt vald kemur úr byssuhlaupi". Þannig skrifaði félagi Mao árið 1938. Kúguðu stéttirnar geta aðeins tekið völdin að undangenginni vopnaðri baráttu. Óskeikulleika þeirrar kenningar staðfestir berjast við hina fáu. Að greina rétt höfuðandstæðurnar í hverju máli og móta rétta pólitíska línu samkvæmt þeim.

Þegar japanir gerðu árás á Kína mynduðu kommúnistar með Mao í broddi fylkingar samfylkingu með Chang Kai-shek, sem þó hafði staðið fyrir fjöldamorðum á kommúnistum aðeins 8 árum áður. Auk þess hafði hann verið höfuðfjandmaður flokksins allan þann tíma. En með samfylkingu á réttu augnabliki, tókst að verja landið heimsvaldaítökum japana, en kommúnistarnir voru í fararbroddi í and-japönsku baráttunni. Þegar japanir höfðu verið sigraðir, var félagafjöldi kommúnistaflokksins heilli milljón meiri en hann hafði verið áður. Þar með var lagður grunnur að sigri yfir afturhaldsöflunum með Chang Kai-shek í fylkingarbroddi.



Maó Búlganín og Stalín





# Noregur: Klassekampen verður dagblað!

KLASSEKAMPEN, blað marx-lenínista í Noregi verður dagblað frá og með 1. apríl 1977.

KLASSEKAMPEN verður fyrsta blað marx - lenínista á norðurlöndum sem kemur út daglega. Þetta er mikill sigur í baráttu þeirra í Noregi, og jafnframt grunnleggjandi fyrir áframhaldi byltingarbaráttunnar, styrkur fyrir verkalýð og vinnandi alþýðu Noregs, sem nú í vaxandi mæli heyir stéttabaráttu gegn skerðingu kjara og réttinda sinna.

KLASSEKAMPEN byggir algerlega á eiginn kröftum og kröftum lesenda sinna. Það nýtur engra opinberra styrkja, hvorki í formi peninga né auglýsinga.

Marx-lenínistar á Íslandi fagna þessum stóra sigri félaga sinna í Noregi, sem jafnframt er sigur verkalýðs og vinnandi alþýðu Noregs.

LIFI KLASSEKAMPEN SEM DAGBLAÐ!

# Asanía/Suður-Afríka: Hvað er P.A.C.?

PAC (Þam Africanist Congress) hefur síðastliðin 17 ár barist, sem frelsishreyfing, fyrir frelsun Axaníu (Suður - afríku).

Hún var bönnuð 197o vegna virkrar andstöðu sinnar við kynþáttastjórnina í landinu. PAC hefur barist ötullega allan tímann sem ólögleg hreyfing. Á árunum 196o-68 voru nær 2oo félagar hreyfingarinnar felldir í átökum eða teknir af lífi af lögreglu fasistanna. Að auki hefur óþekkt tala baráttufólks horfið af völdum fasistastjórnarinnar.

Síðan 1963 hefur PAC verið viðurkennd af Einingarsamtökum Afríkuríkja sem frelsishreyfing sem berst vopnaðri baráttu. PAC hefur góð samskipti við mörg lönd og hreyfingar sem eiga í hliðstæðri baráttu.

## Eðli baráttunnar.

PAC er skipulögð með það í huga, að vopnuð skærubarátta sé hið eina rétta baráttuform fyrir frelsun Azaníu. Baráttan hefur harðnað dag frá degi síðasta árið og upp á síðkastið hafa verkföll og mótmælaaðgerðir verið fleiri en nokkru sinni. Frelsun Angólu og Mozambique 1975 og aukin vopnuð barátta í Zimbabwe (Ródesíu) og Namibíu (Suð-vestur-Afríku) - allt

Frh. bls. 6

# KOMMÚNISTAFLOKKUR VERKAMANNA STOFNAÐUR Danmörk

KFML í Danmörku, bróðursamtök EIK(m-l), hyggja á stofnun kommúnistaflokks á næstunni. KFML voru stofnuð 15. sept. 1968 af marx-lenínistum sem tóku afstöðu gegn starfi og stefnu Moskvusinna í flokknum DKP.

Flokkurinn sem KFML mun stofna mun m.a. hafa á stefnuskrá sinni byltingu núverandi þjóðskipulags í Danmörku og uppbyggingu sósíalisma þar í landi.

Fulltrúar EIK(m-l) munu fylgjast með stofnun flokksins og síðar verður gerð grein fyrir henni hér í blaðinu.

## Sovétríkin í dag



# 1. grein HINIR NÝJU HERRAR Í KREML

FRÁ MIÐJUM SJÖTTA ÁRATUGNUM HEFUR ÁTT SÉR STAÐ RÖÐ BREYTINGA, Í SOVÉTRÍKJUNUM, SEM VISSULEGA ERU EFTIRTEKTARVERÐAR. ÞÆR HAFA ÁTT SÉR STAÐ Á ÝMSUM SVIÐUM SAMFÉLAGSINS, OG SAMANLAGT ERU ÞÆR UMFANGSMIKIL GAGNBYLTINGARFERLI, ÞAR SEM SÓSÍALÍSKIR LANDVINNINGAR UNDANFARANDI 40 ÁRA ERU BROTNIR NIÐUR OG KOLLVARPAÐ.

Á pólitíska sviðinu náði úrkynjunin yfirhöndinni á 2o. flokksþingi Kommúnistaflokks Sovétríkjanna árið 1956, og var staðfest á 22. flokksþinginu 1961, þegar endurskoðunarsinnuð flokksstefnuskrá var samþykkt.

Nútímaendurskoðunarsinnarnir sem tekið höfðu völdin í sovéska flokknum, reyndu að hylja niðurrif sósíalismans með heilu kerfi "fræðikenninga". Það var hvorki meira né minna en að komið var að hinu stéttlausa kommúníska samfélagi í Sovétríkjunum, eins og þeir sögðu 1961.

Nú, nokkrum árum fyrir 198o, verðum við að hlæja, eða gráta, það fer eftir skapgerð, yfir þessum spádómum. Þó að Brésneff hafi breytt þessu ögn með árunum (nú er "aðeins" talað um "lokauppbyggingu hins þróaða sósíalisma"), þá sýna staðreyndirnar allt aðra mynd af Sovétríkjum nútímans. Eftirfarandi skrif eru framlag til upplýsingar og útskýringar um það.

### Hvaða stétt fer með völdin?

Hvaða stétt fer með völdin, hvert er stéttareðli ríkisins? Þetta eru þær spurningar sem afgerandi eru þegar við greinum Sovétríki nútímans. Þjóðfélag getur gengið í gegnum breytingaskeið, þar sem valdið "flýtur", þar sem innri afstæður stéttaaflanna eru óþróaðar, en svona breytingafyrirbrigði verða alltaf skammvinn að eðli. Ekkert þjóðfélag getur "svifið" milli eða yfir stéttunum og jafnvel andstæðufyllstu breytingaskeið búa yfir höfuðtilhneigingu. Marxistar geta þess vegna ekki samþykkt greiningar, sem byggja á því, að í Sovétríkjunum sé einhvers konar ástand, sem ekki ákvarðist af stéttskiptingu. Sovétríkin eru ekki á einhvers konar breytingaskeiði, þvert á móti, stéttaöflin eru styrk og föst í sessi og stéttareðli ríkisins er greinilegt og skýrt. Forréttindahópar sem uxu úr grasi á fyrri áratugum og öðluðust meiri og meiri áhrif, hafa nú sameinast og skipulagt sig sem ríkjandi skrifræðis-auðvaldsstétt og frá efnahagsumbreytingunum 1965 breytti sovéska þjóðfélaginu í ríkisauðvaldsþjóðskipulag af nýrri gerð.

### Efnahagsumbreytingarnar

Hið "nýja efnahagskerfi" frá 1965 setur gróðann í fyrirrúm og byggir á kapítalískum framleiðsluafstæðum á öllum sviðum efnahagslífsins. Það tryggir ekki einungis stétt skrifræðis-auðvaldsins og ráðstöfunarrétt og yfirráð yfir hinum ýmsu fyrirtækjum, heldur gefur og yfirmönnum fyrirtækjanna víðtæk völd til að þróa framleiðsluna eftir leiðum auðvaldsins.

Yfirmenn fyrirtækjanna eru mikið til sjálfstæðir og eru "fullkomlega ábyrgir" fyrir rekstrinum. Þeir geta ráðstafað fyrirtækinu að vild geta keypt og selt framleiðslutæki (sem þannig breytast í vöru), ákveðið framleiðslu- og söluáætlanir og geta eftir vild framleitt vörur, sem vel að merkja, gefa af sér eins mikinn gróða og mögulegt er.

### Sovésk hagræðing.

Þessu marki er náð á margvíslegan hátt. Í efnaverksmiðjunni "Sékínó" nálægt Moskvu voru 2o% verkamanna verksmiðjunnar, um 13oo manns, reknir á árabilinu 1967-73. Hinn aukni gróði, sem varð til við þessa hagræðingu, kom þeim verkamönnum sem eftir voru til góða, eftir venjulegum leiðum "hagnaðardreifinagar" í Sovétríkjunum, en stærsti hluti upphæðarinnar fór í hendur yfirmanna fyrir-tækisins. Eftir því sem blað stéttarfélaganna í Sovétríkjunum, "Trud", segir 11. maí 1974, er þessu fordæmi fylgt eftir af 292 fyrirtækjum í rússneska sovétlýðveldinu einu saman. 1. júlí 1973 voru 7o.ooo verkamenn reknir sem liður í svona "Sékínó" - hagræðingaraðgerðum.

"Efnislegar örvanir" gegna æ stærra hlutverki í tilraununum til að auka vinnuálag sovéskrar verkalýðsstéttar. Er níunda fimmáraáætlunin var lögð fram, (henni er nú rétt lokið), sló forsætisráðherra Sovétríkjanna, Kosygin, fram eftirfarandi grundvallarreglum um hana: "þessi nýja leið til efnislegrar örvunar, sem byggist á styrkingu og þróun arðsemisreglunnar, krefst aukins mikilvægis gróðans í efnahagnum. Við lítum á gróða og arðsemi sem mikilvæga leiðarvísa á virkni framleiðslunnar." (Fakta om Sovjetunionen, sérútgáfa maí 1971, bls. 56).

### Takmarkið er hámarksgróði

Það er greinilega ekki kommúnískur leiðtogi sem lætur þessi orð falla. Hér er á ferðinni þjónn auðvaldsins. Takmarkið er meiri framleiðni til þess að skapa aukinn gróða til ráðstöfunar fyrir hina ríkjandi stétt. Það sést m.a. af stærð bónusins, sem borgaður er verkamönnunum. Sovéska tímaritið "Kommúnisti" nr. 11, 1974, upplýsir að í plastverksmiðjunni Aksaisk, er greidd ein rúbla í bónus fyrir aukna framleiðni sem nemur 16 rúblum og 6o kópekum í gildisauka. Hin ríkjandi stétt kemst yfir þennan gildisauka með sköttum og greiðir með honum kostnaðinn við ríkisvélina, herinn og gjálífi yfirstéttarinnar.

Aðrar sovéskar tölur renna stöðum undir þessa stéttarákveðnu verðmætadreifingu. Tölfræðileg gögn sem safnað er saman frá 7o4 fyrirtækjum sýna, að verkamennirnir fá aðeins 18,1% af bónusgreiðslunum, en afgangurinn gengur til yfirmanna fyrirtækjanna og tæknilegra starfskrafta.

Arðránið á hinni sovésku verkalýðsstétt sést einnig, ef litið er á launafyrirkomulag. Málgagn verkalýðshreyfingarinnar í Danmörku hafði það eftir sovésku fréttastofunni APN að 1. ágúst 1972 hefðu 56,8% af iðnverkamönnum verið á ákvæðislaunum. Hvort að fyrirtæki er starfrækt á grundvelli tímalauna eða ákvæðislauna "er komið undir áræðni yfirmannanna", segir APN.

### "Dulda" atvinnuleysið.

Í öðrum atriðum er ekki hægt að greina á milli stöðu sovéskra verkamanna og verkamanna í öðrum auðvaldslöndum, svo sem Íslandi og Danmörku.

Atvinnuleysi er í Sovétríkjunum eins og öðrum auðvaldslöndum. Þessu er að vísu neitað opinberlega, en skyggnist menn bak við tjöldin, þá finnst atvinnuleysið dulið sem hið "fljótandi vinnuafl".

Frá 1969 hafa mörg sovésk dagblöð, t.d. "Sovétskaja Rossija" upplýst, að komið hefur verið á fót raunverulegum ráðningaskrifstofum vítt um Sovétríkin. Í rússneska sovétlýðveldinu og í Kasakhstan leituðu fleiri milljónir manna atvinnu á bilinu 1969-74. 2o% af iðnverkamönnum og 3o% af byggingarverkamönnum eru taldir tilheyra hópi "hreyfanlegra verkamanna", þ.e.a.s. verkamanna sem verða að leita úr einum staðnum í annan til að fá atvinnu. Hver verkamaður er atvinnulaus í 25-3o daga áður en hann fær vinnu á ný, segir E. Manevich í "Voprosy Ekonomika" nr. 12 1973, sem svarar til þess að 78o.ooo verkamenn hafa verið atvinnulausir í eitt ár.

### Vinnuaflið sem vara.

Vinnuaflinu hefur á allan hátt verið breytt í vöru í Sovétríkjum nútímans. Það gengur kaupum og sölum á sama sama hátt og í auðvaldslöndum í vestri.

"Sékínó"-kerfið sem minnst var á að framan, sýnir hvernig uppsagnir verkamanna eru liður í ráðstöfunum yfirmanna fyrirtækja. Og vanti vinnukrafta, er auglýst í blöðunum. Auglýst er eftir "vinnuleiðurum", eftir "verkamönnum", og tekið fram að t.d. vanti unga ógifta menn (!) og það er lokkað með tilboðum um gott húsnæði.

Á móti er staða sovéska verkamannsins sú, að hann reynir að selja vinnuafl sitt eins dýrt og kostur er. Þetta sýnir sovésk könnun þar sem fram kemur að meðaltalsvinnutími sem verkamaður er við vinnu við fyrirtæki er aðeins 3,3 ár og 12.-15. hvert ár flytur meðaltalsverkamaðurinn á nýjan stað. Hinn sovéski verkamaður flyst frá einum stað á annan í von um að fá vinnu sína eins vel borgaða og hægt er.

Í næstu grein fáum við að sjá hvernig verkalýðsstéttin snýst gegn kúguninni og dregin verður upp mynd af núverandi efnahagskreppu í Sovétríkjunum.



Manndrápsvopnin sem Kremlherrarnir nota í heimsvaldaásælni sinni.

## Styðjum baráttu sjómanna

Sjómenn hafa snúist til baráttu gegn bráðabirgðalögum þeim er ríkisstjórnin setti þann 6. september síðastliðinn. Mótmæli hafa borist frá samtökum sjómanna, hópum sjómanna, einstaka áhöfnum og einstaklingum. Sjómönnum hafa einnig borist stuðningskveðjur frá fjölmörgum samtökum og aðilum. Safnað hefur verið undirskriftum til mótmæla bráðabirgðalagasetningunni og hefur árangur orðið betri en margir þorðu að vona. Sjómenn hafa einnig hafið útgáfu á sérstöku blaði, Sjómanninum, þar sem sjónarmið þeirra eru kynnt. Þar er rætt um kjaramál sjómanna í nýjum tón, tón sem lætur líklega ekki vel í eyrum útgerðarfurstanna og samherja þeirra í forystu sjómannasamtakanna. Sífellt fleiri sjómenn eru líka farnir að reka sig á þá staðreynd, að þeir verða að fara að hreinsa til í eigin húsi. Þeir verða að koma frá þeim forystumönnum í samtökum þeirra, sem hvað lengst hafa gengið í átt til leynimakks og þýlyndis við útgerðarvaldið.

Á næstunni verður til dæmis kosinn formaður í Sjómannasambandi Íslands. Í framboði eru tveir menn, annar er boðinn fram og studdur af Birni Jónssyni og fleirum úr ASÍ-aðlinum, hinn er starfandi sjómaður úr Hafnarfirði. Það er ansi táknrænt fyrir ASÍ-frambjóðandann, að hann hefur tæplega á sjó komið, en honum er hins vegar fyllilega treyst fyrir því að vera trygglynd skrifstofublók, líkt og fyrri formaður Sjómannasambandsins var. Eftir þessu hafa sjómenn tekið.

Framkvæmdastjóri LÍÚ, Kristján Ragnarsson, hefur sagt bráðabirgðalögin nauðsynleg til þess að taka af öll tvímæli um kaup og kjör sjómanna.

Sjómenn, herðið enn réttmæta baráttu ykkar. Sýnið útgerðarfurstunum og ASÍ-aðlinum það í eitt skipti fyrir öll hug ykkar í verki. Hreinsið til í samtökum ykkar og brjótið bráðabirgðalög Matta og Geirs á bak aftur!

## LANDHELGISSAMTÖK

Þann 19. sept sl. voru stofnuð liðsmannasamtök gegn erlendum veiðiheimildum og gegn allri rányrkju.

Í dreifibréfi sem fjöldasamtök þessi sendu frá sér segir meðal annars:

"Landhelgissamtökin, sem eru nýstofnuð fjöldasamtök, og hafa innan sinna vébanda fólk úr röðum sjómanna, verkalýðs og vinnandi alþýðu, þar á meðal fiskifræðinga, benda á, að til þess að fiskstofnarnir geti af sér hámarksnyt um aldur og æfi, verður að koma í veg fyrir alla rányrkju. Mikilvægasta og um leið fyrsta skrefið er að koma algerlega í veg fyrir veiðar erlendra fiskiskipa innan 200 mílnanna. Án þess verður róðurinn nær vonlaus fyrir íslenska alþýðu í baráttu sinni fyrir sjálfsögðum hagsmunum sínum.

Landhelgissamtökin munu að sjálfsögðu berjast gegn veiðiheimildum til pólsku ríkisstjórnarinnar sem og allra annarra erlendra aðila.

1. ENGAR ERLENDAR VEIÐIHEIMILDIR INNAN 200 MÍLNANNA!
2. GEGN ALLRI RÁNYRKJU - INNLENDRI SEM ERLENDRI! Tryggjum hámarksafrakstur fiskistofnanna um alla framtíð.
3. KRÖFTUGA BARÁTTU ALÞÝÐUFÓLKS FYRIR SJÁLFSÖGÐUM HAGSMUNUM SÍNUM!

Takið þátt í störfum Landhelgissamtakanna!

Landhelgissamtökin eru fjöldasamtök, sem ganga þvert á pólitíska flokkadrætti og krytur.

Hafið samband við:
Sigrúnu H. Þorgrímsdóttur í síma 42667
Önnu Jónsdóttur síma 73093
Pál Stefánsson síma 16871
Þórhall Tr. Tryggvason 74757

# Alþýðubandalagið og ráðherrasósíalisminn

FRUMKVÖÐLAR MARXISMANS OG LENÍNISMANS Á BORÐ VIÐ LENÍN, STALÍN, OG MAO TSETUNG, HAFA ALLIR FJALLAÐ MIKIÐ UM ENDURSKOÐUNARSTEFNUNA - VÍSVITAÐ EÐA ÓVÍSVITAÐ FRÁHVARF FRA GRUNDVALLARATRIÐUM ÞJÓÐFÉLAGSVÍSINDA MARX-LENÍNISMANS.

Lenín tekur fyrir úrkynjun sósíaldemokrataflokkanna og setur bolsévismann - byltingarstefnu - gegn kratismanum. Kommúnistaflokkur Íslands (193o-38) var t.d. stofnaður gegn Alþýðuflokknum eftir uppgjör við borgaralega umbótastefnu hans. Lenín fjallar mikið um borgaralegt eðli endurskoðunarstefnunar - að endurskoðunarsinnaflokkur eigi ekkert skylt við stjórmálaflokk verkalýðsins og þeir séu í raun þjónar auðvaldsins í verkalýðshreyfingunni.

Jósef Stalín var einn forystumanna við uppbyggingu raunverulegs sósíalísma í Sovétríkjum kreppu og stríðsáranna. Bolsévíkar þurftu að berjast gegn innlendu afturhaldi og borgaralegum öflum, sem grófu undan Sovétvaldinu - alþýðuvöldunum - og undan flokknum, jafnt innan frá sem utan. Þá skorti að vísu skilning á nauðsyn fjöldastefnu í þessari baráttu og tilvist borgarastéttarinnar eftir Októberbyltinguna. En Stalín og sovéskir kommúnistar afhjúpuðu endurskoðunarsinnana t.d. Trotskí o.fl., og sýndu fram á að stefna þeirra var hrein kratastefna með "vinstri" róttæknisblæ. Þeir héldu gagnbyltingaröflum niðri í marga áratugi.

Maó Tsetung og kínverskir kommúnistar drógu, ásamt Flokki vinnunar í Albaníu og fleirum, sanna lærdóma af þróun Sovétríkjanna til auðvaldsríkis (195o-6o). Þeir litu réttilega á stéttabaráttu eftir byltinguna sem lykilatriði og framkvæmdu Menningarbyltingu og síðari herferðir gegn hægri öflum í Kína til að afstýra öfugþróun. Maó segir að völd endurskoðunarsinna í sérhverri - mynd tákni einfaldlega völd borgarastéttarinnar og einokunarauðherranna.

Þannig hefur baráttu gegn endurskoðunastefnu geysað á nýjum og nýjum vígstöðvum og í nýjum formum.

Hér á Íslandi var Alþýðuflokkurinn sá flokkur sem smjaðraði fyrir verklýðnum og afvegaleiddi hann með endurskoðunarstefnu sinni og umbótaþrá til auðvaldsþjóðfélagsins. Síðar, er endurskoðunarsinnar, m.s. úr Alþýðuflokknum, gengu að gamla Kommúnistaflokki



Einar Olgeirsson

Íslands dauðum, tók Sósialistaflokkurinn og svo Alþýðubandalagið við hlutverkinu. Stjórnarsamvinna við Sjálfstæðisflokk, (Nýsköpunarstjórn) "vinstri stjórnir", þáttaka í stofnunum ríkisins og fyrirtækjum - allt á þetta að "þjóna verkalýðnum" og færa "sósíalismann"nær.
Gildir þá einu hvort um er að ræða Seðlabanka stjórnun, undirskrift veiðiheimilda innan 5o mílna fiskveiðilögsögu eða afnám vísitöluuppbóta.
Þingið nefndirnar og ráðin eru "baráttuvettvangur" flokksins en fjöldabaráttan og stéttvísin eftirlátin öðrum - kommúnistum og fólkinu sjálfu.
"Friðsamleg og lýðræknisleg leið til sósíalismans" er afleiðing endurskoðunar Alþýðubandalagsforystunnar á marx - leníniskri blindgötu sem leiðir alþýðuna á vit ógnaraðgerða eins og urðu í Chíle. Samvinnan við atvinnurekendur og auðvaldsþjónkan er dagleg ásýnd þessarar borgaralegu skemmdarverkastefnu.

Hér eru dæmi um hana - stjórnir stofnana o.fl.

1. Áburðarverksmiðjan (Guðmundur Hjartarsson)
2. Búnaðarbankinn (Helgi Seljan o.fl.)
3. Fiskimálasjóður (Karl Sigurbergsson)
4. Framkvæmdastofnunin (Ragnar Arnalds)
5. Landsvirkjun (Guðmundur Vigfússon)
6. Seðlabankinn (Guðmundur Hjartarss. Ingi R)
7. Kröflunefnd (Ragnar Arnalds)
8. Landsbankinn (Einar Olgeirsson)

Til viðbótar koma svo kaupfélög, ferðaskrifstofa, heildsölur, fleiri bankar og ótal nefndir og ráð ríkisins.

Hvað sýnir þetta annað en fulla þáttöku í stjórnun og skipulagningu auðvaldsframleiðslunar - í arðráninu og kúguninni?
Völd Alþýðubandalagsins eru völd borgarastéttarinnar - ef ekki hvar eru ávinningar alþýðu af þessum "trúnaðarstörfum"?

## KVEÐJUR



Hér verður getið tveggja kveðja sem EIK(m-l) hafa sent frá sér nýlega.

Í kveðju samtakanna til stofnfundar Landhelgissamtakanna í september sagði meðal annars:

Nú stendur fyrir dyrum harðnandi barátta um auðæfi hafsins umhverfis Íslands. Langt er í land með full yfirráð Íslands yfir 200 mílna fiskveiðilögsögu. Erlend og innlend rányrkja halda áfram sem aldrei fyrr".....

"Í baráttu fjöldans gegn endurnýjun samninga, gegn allri rányrkju og öllum tilraunum til ásælni í íslenskar auðlindir, sérstaklega frá hendi risaveldanna tveggja og voldugustu rányrkjuaðilanna, Sovétríkjanna og Bandaríkjanna. Við styðjum heilshugar komandi starf ykkar og óskum ykkur velfarnaðar og stórra sigra"

Í stuðningskveðju til Félags röntgentækna sagði m.a. svo:

"Einingasamtök kommúnista marx-lenínistar senda félögum í samtökum röntgentækna stuðnings- og baráttukveðjur.

Störf röntgentækna eru mikilvæg en illa launuð - og sífellt kreppir meir að þessu starfshóp, sem öðrum skyldum. Þetta bendir á að flest starfsfólk heilbrigðisþjónustunnar á samleið og samstöðu með verkalýðnum og vinnandi alþýðu gegn atvinnurekendum og ríkisvaldi þeirra. Ykkar barátta og barátta mjólkurbúðakvenna er einnig grein á sama meiði.

EIK(m-l) óskar ykkur góðs gengis og sigurs í launabaráttunni og geta veitt aðstoð ef þið teljið hennar þörf".

EIK(m-l) sendu bróðurflokki sínum í Albaníu, Flokki vinnunnar kveðju þann 25. sept. s.l. í tilefni af 35 ára afmæli flokksins. Segir þar meðal annars:

"Barátta og starf flokksins síðustu 35 árin hefur sannað óbugandi styrk marx-lenínismans og einingu framvarðarsveitar öreiganna og verkalýðsstéttarinnar og annarar vinnandi alþýðu. Flokkur Vinnunnar hefur sýnt sig vera lýsandi dæmi fyrir okkur og alla kommúnista að fylgja. Lýsandi dæmi um þekkingu og hetjuskap."

"Hlutverk marx-lenínista er, að búa alþýðu sinna landa undir styrjöld og baráttu, fyrir vörn sjálfsákvörðunarréttarins og fyrir sigri yfir auðvaldi, heimsvaldastefnu og endurskoðunarstefnu. Íslensk alþýða mun alltaf muna stuðning þann sem Flokkur Vinnunnar í Albaníu og albönsk alþýða veitti í baráttu okkar fyrir 200 mílna fiskveiðilögsögu."

Afmæli Flokks Vinnunnar verður minnst á fyrirhugðu þingi flokksins, sem haldið verður í Albaníu innan tíðar. Ritstjórn blaðssins "Rödd alþýðunnar" í Albaníu hefur boðið félaga úr EIK(m-l) til Albaníu, til þess að fylgjast með störfum þingsins. Nánar verður greint frá því síðar.

## Hróplegt ranglæti

framhald af forsíðu

þannig að hann fær ráðherrabréf uppá sömu laun og röntgenhjúkrunarkonur og meinatæknar, eða 15.flokk 197o.

Röntgentæknaskólinn tekur til starfa 1972 og útskrifar fyrstu röntgentæknana 1974 , næstu 1976. Á þessum tíma dragast röntgentæknar aftur úr röntgenhjúkrunarkonum og meinatæknum í kjörum. Félag okkar var þá enn ekki nógu öflugt til að gangast í þetta mál. Þegar við byrjum að útskrifast eflist starf röntgentæknafélagsins og reynt var að fá kjaraleiðréttingu til jafns við fyrrgreinda hópa. En þessi leiðrétting hefur en ekki náðst. Grundvallaratriðið er að við berjumst fyrir að ná aftur kjörunum sem kveðið var á um í ráðherrabréfinu frá 197o.

Vbl: Hverjar eru kröfur ykkar?

AH: Skilyrði fyrir því að uppsagnir okkar verði dregnar tilbaka eru þessi:

1. Að almennir röntgentæknar verði launaðir samkvæmt B-12 launaflokki starfsmanna ríkisins(líkt og röntgenhjúkrunarkonur og meinatæknar), en þeir eru nú í B-1o. Mánaðarlaun byrjenda í þeim flokki eru um 85.ooo kr. á mánuði.
2. Að staðið verði við það samningsatriði frá því í sumar, að röntgentæknar hækki um 1 launaflokk eftir fjögurra ára starf.
3. Að yfir- og deildarröntgentæknar úti á landi hækki um 2 launaflokka (það er að þetta verði bundið í samningi).
4. Að röntgentæknar með eins árs sérnám hækki um einn launaflokk.
5. Að sett verði í samninga 16 daga vetrarorlof allra röntgentækna.

Að sjálfsögðu styðjum við starfsmannafélag okkar í baráttu vegna almennrar kjaraskerðingar opinberra starfsmanna en ákvarðanir um aðgerðir vegna hennar hafa enn ekki verið teknar. Fyrsta skrefið er fyrrnefnd leiðrétting. Þetta er sáralítil hækkun sem við förum fram á, þar sem það er lágmarkskrafa að hafa sömu laun fyrir sömu störf.

Vbl: Hvernig hefur ríkisvaldið brugðist við?

AH: Við höfum margoft sent fjármálaráðuneytinu bréf með ósk um þessa leiðréttingu en þeir svara aldrei. Þegar síðustu samningar gengu úr gildi vonuðumst við loks eftir leiðréttingu, viðuðum að okkur öllum hugsanlegum gögnum og lögðum fram haldgóð rök sem starfsmannafélag Ríkisstofnanna bar fram við kjaranefnd sem sett var í málið. En vonir okkar brugðust algjörlega. Kjaranefnd setti almenna hækkun á alla eftir venju, engar leiðréttingar. Uppvíst er að kjaranefnd las aldrei plöggin frá okkur. Þessi nefnd er ekki starfi sínu vaxin.

Þegar þetta varð ljóst og málið hafði dregist svona lengi, var ekki eftir neinu að bíða og einróma samþykkt í stéttarfélagi okkar, Röntgentæknafélagi Íslands að við segðum upp störfum frá og með 2o. nóvember.

Vbl: Hvernig horfa málin nú?

AH: Fjármálaráðuneytið hefur aldrei viljað við okkur tala og engir samningar til, eftir að stéttin stækkaði. Því tel ég það nálgast lögbrot að standa ekki við samningin frá 197o.

Við höfum 3. mánaða uppsagnarfrest en ríkið má skylda okkur með eins dags fyrirvara til að vinna þrjá mánuði til viðbótar ef um hópuppsagnir er að ræða. Hjá borginni hins vegar verður það að tilkynnast innan eins mánaðar frá því uppsagnarbréfin eru send inn. Bréf barst þess efnis frá borgaryfirvöldum, en dagsett 3 dögum of seint. Nú er það í athugun hjá lögfræðingi hvort við getum því ekki hætt á tilsettum degi.

Fundur var haldinn í stéttarfélagi okkar í gær og einróma samþykkt að hætta störfum 2o. nóv. telji lögfræðingurinn okkur stætt á því.

Vbl: Hver eru viðbrögð annarra starfshópa innan sjúkrahúsanna við aðgerðum ykkar?

AH: Mér sýnist margir vilji rangtúlka þessar uppsagnir og skilji ekki hve kröfur okkar eru litlar í raun. Hér er einungis um leiðréttingu að ræða. Við erum ekki að draga okkur út úr starfsmannafélagi Ríkisstofnanna, né krefjast launa til jafns við starfssystkyn okkar erlendis, en sem dæmi um mismunin þar og hér get ég nefnt að 15% okkar hafa horfið til starfa erlendis vegna miklu betri kjara þar. Þar eru grunnlaun um 15o.ooo kr. á mánuði.

Launabaráttan í heild verður að öðru leyti háð innan Starfsmannafélags Ríkisstofnanna með öðrum opinberum starfsmönnum.

Vbl: Erlendis t.d. í Noregi hafa verið gerðar kannanir á geislunarmengun á vinnustöðum sambærilegum við ykkar og komið í ljós að engin geislun er svo lítil að hún sé ekki mengandi(hættuleg). Hafið þið gert einhverjar sérkröfur vegna áhrifa geislunar?

AH: Röntgenhjúkrunarkonur og röntgentæknar fá $\frac{1}{2}$ mánaðar vetrarfrí vegna þessa og hingað til höfum við hjá ríkinu fengið það líka. Núna hefur okkur verið tilkynnt að svo verði ekki í vetur nema ákvæði þess efnis komi í skriflega samninga. Þetta er því ein af sérkröfum okkar nú, eins og fram kom áðan.

Vbl: Hvaða lærdóm hefur þú dregið af þessari baráttu?

AH: Mig langar að geta hér eins dæmis um samningsbrot sem ríkið fremur á vinnukrafti sínum. Svo kveður á í lögum að greiða skuli eftirvinnu 1 virkan dag eftir 15. hvers mán. en launadeild Ríkisspítalanna borgar þessa peninga ekki út fyrr en fyrsta föstudag eftir 14. hvers mán. Og hækkunin sem við fengum í júlí kom ekki til útborgunar fyrr en um s.l. mánaðarmót. Og að lokum þetta: Starfsmannafélag Ríkisstofnanna og BSRB eru það stór og svifasein að þau valda ekki verkefni sínu.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ óskar röntgentæknum góðs árangurs í baráttu sinni og telur að rétt sé af stað farið. Blaðið hvetur allt vinnandi fólk til að gæta réttar síns gagnvart atvinnurekendum og ríkisvaldi. Eins og Arngrímur benti á eru samningar mjög víða brotnir á launafólki. Það er því nauðsynlegt að vera á verði um þau lágmarksréttindi að samningar séu haldnir.

Aðildarfélagar innan BSRB eru í æ ríkara mæli farnir að gera sér grein fyrir hve forystan er óvirk og hve skipulag þess er ófært um að þjóna hagsmunamálum aðildafélaganna. Verkfallsréttur BSRB sem forystan hefur dásamað sem mest er ónothæft vopn í kjarabaráttunni. Ljóst er hve auðvelt væri að yfirborga eitt aðildafélag þannig að aldrei næðist samstaða um verkfall. Einungis með vökulu auga, samstöðu og starfi í stéttarfélögunum geta félagarnir vænst úrbóta.






# LEIÐRÉTTINGAR VIÐ SAMEININGARGRUNDVÖLLINN

EIK(m-l) lögðu fram grundvöll að einingu marx-lenínista í síðasta tölublaði Verkalýðsblaðsins. Samtökin vilja sameinast öllum sem samþykkja grundvöllinn óbreyttan í höfuðatriðum.

Þau samtök sem mest hafa "harmað" klofninginn á vinstri vængnum og fjölmargir einstaklingar hafa þó enn ekki tekið afstöðu til plaggsins. Þetta á ekki síst við um "KFÍ/ml" sem sakar EIK(m-l) um "klofningsstarfsemi".

EIK(m-l) skorar á flokkinn og einstaklinga sem stuðla vilja að einingu á grundvelli marx-lenínismans að taka afstöðu sem allra fyrst. Leiðari blaðsins fjallar um skilyrði fyrir sameiningu marx-lenínista.

A.m.k. tvö atriði í grundvellinum þurfa leiðréttingar við:

1. Þar sem rætt er um framleiðinn verkalýð (bls.2) eru framleiðin störf talin m.a. sorpeyðing. Nokkru neðar eru sorphreinsunarmenn taldir óframleiðnir. Hið rétta er að sorpeyðing er þjónustustörf og stendur utan framleiðslu- og flutningsstarfseminnar, sem eru framleiðin störf. Stafar villa þessi af ónákvæmni, enda smávægileg í því samhengi sem hún er þarna.

2. Í sömu grein grundvallarins, gr. 7 bls 2 (Verkalýðsstéttin) stendur: "Framleiðinn verkalýður skapar gildisauka (viðbótarverðmæti) sem burgeisarnir slá eign sinni á og ráðstafa,m.a. sem launum til framleiðins og óframleiðins verkalýðs". (Undirstrikun Verkalýðsblaðsins).

Þetta atriði er rangt. Laun framleiðna verkalýðsins eru ekki innifalin í gildisaukanum. Verkamaður fær hráefni í hendur, eykur gildi þess með vinnu sinni. Hann fær aðeins greitt fyrir hluta þessa gildis sem við bættist með vinnu hans. Afgangurinn er gildisaukinn. Hann fær burgeisinn og notar m.a. í laun handa óframleiðnu fólki, fjárfestingar, eigin neyslu og fl.

Að auki þarf eitt atriði að bætast aftast við kaflann um Kommúnistaflokkinn (III. kafli,E.)bls 3: "Kommúnistasamtök eða flokkur verða að samþætta lokað, óopinbert starf annars vegar og opið starf hins vegar þegar frá upphafi vega. Verða kommúnistar að gæta allrar varúðar gagnvart innlendum og erlendum stéttaróvini, þannig að flokkurinn eða samtökin geti starfað þótt ráðist sé gegn honum á einhvern hátt."

# Chilesöfnun

Nú eru liðin 3 ár frá valdaráni "Górillanna" í Chile. Alþýðan hefur verið kúguð pínd, fangelsuð og drepin þessi 3 ár.

EIK(m-l) hefur hafið söfnun til styrktar Frelsisbaráttu Chileenskrar alþýðu - frelsissamtökum hennar - Frente del Pueblo.

Safnast hafa 6 þúsund krónur. Styrkið baráttuna í Chile - sendið framlög í gíró 12200.

LIFI BARÁTTA CHILEENSKRAR ALÞÝÐU!

# Ný og endurbætt Baráttuleið alþýðunnar kr:1000

Ný og endurbætt útgáfa af Baráttuleið alþýðunnar - stefnuskrá EIK(m-l) er að koma út. Þar má lesa afstöðu samtakanna til ýmissa þjóðfélagsmála, til alþýðubaráttunnar, til heimsmála og fleira.

Einnig er að koma út nýtt tbl. af Rauðliðanum, fræðilegu málgagni EIK(m-l). Þar er aðallega fjallað um stefnuskrá hins svokallaða Kommúnistaflokks Íslands (m-l).

Pantanir sendist í pósthólf 5186 í Reykjavík.

# Heimshreyfingin og eining ísl. marx-lenínista

Pólitískar markalínur til vinstri við kratastefnu og endurskoðunarstefnu AB í marxismanum eru nú óðum að skýrast. Sósíalistafélag Reykjavíkur og klofningsbrotið úr Kommúnistasamtökunum (KSML (b)) eru horfnir hópar. Fylkingin er horfin á vit skemmdarverkastarfsemi sem á sér bakhjarl á alþjóðamælikvarða í "4. alþjóðasambandinu". Þetta "alþjóðasamband" er málpípa fyrir upphlaupastefnu og þjónkun við "sósíalistana" í Kreml - þá Brésneff og co. "Kommúnismi" Fylkingarinnar á alþjóðavettvangi lýsir sér t.d. í stuðningi við sovésk/kúbönsk alþýðumorð í Angóla og í kurteisisheimsóknum til Póllands meðan pólsk alþýða berst gegn fólskulegum árásum "kommúnistana" þar. Hann lýsir sér í stuðningi við innrásina í Tékkóslóvakíu og árásum á Kína. Fylkingin hefur tekið sér stöðu og er þar með sniðgengin af framsæknu fólki.

Kommúnistasamtökin (KSML) og flokkur þeirra (KFÍ ml) eiga sér allt annan feril í alþjóðamálum. Sá hluti sem hér verður fjallað um, varðar samskipti KSML/KFÍ ml við erlend samtök.

Grafið undan marx-lenínismanum

Sú heimshreyfing marx-lenínista sem þróaðist með uppgjöri Kommúnistaflokks Kína, Flokks Vinnunnar í Albaníu, annarra flokka og eistaklinga frá árunum um 1960 til þessa dags, stækkar nú örskjótt. Marx-lenínískir flokkar eða samtök eru nú til í nær öllum þjóðlöndum. Flestir þeirra leggja mikla áherslu á gagnkvæm samskipti og tengsl.

KSML voru yfirlýst bræðrasamtök sænskra samtaka KFML(r) og höfðu sömu stefnu og þau. Á árunum 1971-74 tóku KSML saman við fleiri samtök sömu tegundar svo sem KAml í Danmörku, PCMLI á Ítalíu og KAF í Noregi. Allt voru þetta "hin einu sönnu marx-lenínísku samtök í sínu heimalandi". (Sbr. Stéttabaráttuna). Í raun voru þetta hópar skemmdarvarga og endurskoðunarsinna, sem störfuðu gegn Marx-lenínistum (SKP í Svíþjóð, KFML í Danmörku, PCI (m-l) í Ítalíu, AKP(m-l) í Noregi. Samtímis réðst KSML gegn þessum síðastnefndu samtökum og flokkum frá "vinstri" - síðast í ársbyrjun 1975. (Stéttabarátta 1/75 bls. )

Þannig voru utanríkistengsl KSML, samvinna þessara gagnbyltingahópa og tilraunir til að stofna "5. alþjóðasambandið" til þess eins að grafa undan marx-lenínistum heimshreyfingarinnar og sverta hana. Enda einangraði hún algjörlega hópana, þ.á.m. KSML, og barðist gegn þeim með góðum árangri.

KSML söðlar um.

KSML hóf málefnabundna sjálfsgagnrýni í árslok 1974. Á fyrri hluta árs 1975 breyttist hljóðið gagnvart marx-lenínísku heimshreyfingunni. Nú voru bræðrasamtök EIK(ml) svo sem norrænu flokkarnir og samtökin "samherjar " KSML. KSML leitaði hófana um samskipti við þau en fékk alls staðar neitun. KFÍ ml hefur haldið umleitunum áfram.

Samskipti EIK(ml) við norrænu samtökin, við þýska flokkinn (KPD/ml), við Flokk Vinnunnar í Albaníu, bandarísku samtökin (October Legue (m-l)) ofl. eru m.a. reist á gagnkvæmum stuðningi við stefnur EIK(ml) og öfugt. Þau eru EIK(ml) mikill styrkur.

Þegar KFÍ (ml)/KSML hafði reynt árangurslaust að tengjast heimshreyfingunni tók að bera á nýrri afstöðu. Nú "Stóð EIK (ml) í vegi fyrir marx-lenískum forystusamtökum", samskipti EIK(ml) stöfuðu af "vanmati" erlendu hreyfinganna "persónulegum tengslum" formanns EIK(ml) - og AKP(ml) í Noregi var hvatt til að beita áhrifum sínum til sambræðslu EIK(ml) og KSML.

Þannig réðust KSML/KFÍ (ml) í raun á heimshreyfinguna og vörðu þá afstöðu sína að gera ekki upp við fortíðina í einu og öllu. Og samtímis samstöðuyfirlýsingu við bræðrasamtök EIK(ml) er því lýst yfir að EIK(ml) séu "klofningssamtök" ofl. í þeim dúr.

Raunveruleg eining.

KFÍ/ml reynir nú að rjúfa eðlilega einangrun flokksins, án sérstaks árangurs. Það er aðeins til ein leið í raun og veru:

a) Sýna fram á að KSML voru aldrei marx-lenínísk samtök.
b) Gera eindregna sjálfsgagnrýni á heildarstarfi KSML/KFÍml
c) Viðurkenna að EIK(ml) eru samtök marx-lenínismans og að afstaða þeirra til einingar marx-lenínista sé í höfuðatriðum rétt.

Þegar þetta er komið fram er eining milli EIK(ml) og KFÍml raunveruleg og tengsl við heimshreyfinguna möguleg. Fram að því eru tilraunir KFÍ/ml til samskipta - yfirlýsingar þeirra, kveðjur, umfjöllun um erlend samtök, árásir á EIK(ml), - hentistefna einber.

Stundum hefur sá grunur læðst að marx-lenínistum að KSML/KFÍ ml hafi aðeins reynt andlitslyftingu með umleitunum til erlendu samtakanna. Í Stéttabaráttunni nr. 16 76 sést að sendimenn KFÍ ml hafi heimsótt klofningssamtökin PCMLI á Ítalíu fyrir stuttu! og sendu ítölsku "félögunum" kveðjur!

Félagar í KFÍ/ml!

Slítið öll bönd við fortíðina og erlendar skemmdarverkaklíkur. Sláið niður alla henti- og endurskoðunarstefnu.

# FULLTRÚI P.A.C TIL ÍSLANDS



Fulltrúarnir tveir frá PAC þeir Mfanasekaya Gqobose t.v. og Vuyani Magaza sem heimsækja Ísland.

Sem kunnugt er af fréttum fer barátta blökkumanna og undirokaðra síharðnandi í sunnanverðri Afríku. Hún beinist gegn stórveldunum, kynþáttastefnu og fasisma.

Einna hörðust er baráttan í Namibíu og S-Afríku, sem heitir í raun AZANÍA. Reyna stjórnmálamenn víða, úr hópi svonefndra iðnríkja að sætta stríðandi fylkingar hinna undirokuðu og hvítrar yfirstéttar. En stéttabaráttan verður æ víðtækari. Alþýða Afríku krefst sjálfstjórnar, þjóðfrelsis og jöfnuðar og stefnir ótrauð að því marki. Vert er að minnast þess að það er fyrst og fremst eðlileg mótspyrna yfirstéttarinnar sem býður heim valdbeitingunni sem blökkumenn hika ekki lengur við að sýna.

Nú hafa risið mjög víða í Afríku þjóðfrelsisfylkingar, er heyja eða undirbúa alþýðustríð til frelsunar lands og þjóða. Þær eiga mjög víðtækan stuðning alþýðu heimalandsins, auk stuðnings meðal margra landa og alþýðu heimsins. Markmið þeirra allra er óháð ríki gagnvart öllum heimsveldunum, sérstaklega risaveldunum Sovétríkjunum og Bandaríkjunum, og sjálfstæð þróun þjóðfélagsins til alþýðuvalda.

Ein þessara hreyfinga er PAN AFRICANIST CONGRESS (PAC) í Azaníu. PAC er eina hreyfingin í S-Afríku sem afneitar allri stéttastefnu við Voerster-harðstjórnina og skipuleggur fjöldabaráttu. PAC er því þjóðfrelsishreyfing Azaníu með réttu, enda nýtur hún stuðnings þarlendrar alþýðu.

PAC hefur opnað upplýsingaskrifstofu í Londun, en fulltrúar þaðan eru nú á ferðalagi um Norðurlönd til að kynna baráttu alþýðunnar í Azaníu. Einingarsamtök kommúnista (m-l) og Azaníunefnd þeirra hafa boðið fulltúunum til Íslands 18. - 21. október n.k. Munu fulltúar PAC sitja almennan opinn fund, halda blaðamannafund ofl. Fundirnir verða auglýstir nánar, en EIK(m-l) og nefndin hafa boðið nokkrum samtökum að skipuleggja og opna fundinn í sameiningu og samstarfi við sig. Einnig er hafin fjársöfnun til stuðnings PAC frá og með 1. okt. n.k. Geta stuðningsmenn baráttunnar sent fé með póstávísun á póstfang vort.

Azaníu-nefndin.
Pósthólf 5186
Reykjavík R5

# Hvað er PAC?

Frh. af bls. 3

hefur bætt baráttustöðuna í Azaníu.

Baráttusamfylking.

PAC vinnur nú að myndun baráttusamfylkingar allra afla sem í raun vilja afnám fasistastjórnarinnar. Eðli baráttunnar í Azaníu er slíkt, að það verður að byggja baráttusamfylkingu gegn sameiginlegum óvini.

Afrísk alþýða vill ekki láta berjast fyrir sig. Hún er sinn eiginn frelsari. Í tilkynningu frá PAC segir orðrétt:

"Við þiggjum allan siðferðilegan- og efnahagslegan stuðning frá vinum utan Azaníu. Við viljum samstöðu afla innan sem utan Azaníu. Við munum hins vegar ekki þiggja aðstoð herafla nokkurs lands, landasamtaka eða einhvers stórveldis. Með góðri aðstoð mun alþýða Azaníu vinna fullkominn sigur á afturhaldinu í föðurlandi sínu".

Alþjóðleg samstaða.

Samstaða 3. heimsins í baráttu arabískrar alþýðu, alþýðu Indókína, Afríku og Latnesku Ameríku hefur í sér fólginn dauðadóm yfir heimsvaldastefnunni og yfirráðum hennar um heim allan.

Í Azaníu er PAC leiðandi afl í baráttunni fyrir frelsun landsins undan oki fasismans. Hreyfingin lýsir því yfir að í stjórnlistarlegu tilliti sé vald heimsvaldastefnunnar og kynþáttakúgaranna mikið. Hins vegar byggir baráttuaðferð PAC á því að taka óvininn mjög alvarlega.

Þess vegna ferðast málsvarar PAC landa á milli, til þess að útskýra eðli baráttu þeirra, skammtíma- og langtíma markmið. Þetta er mikilvægt nú, einmitt á tímum vaxandi vopnaðrar baráttu í Azaníu.

Markmið.

Skammtíma baráttumarkmið PAC hafa í sér fólgna þörf fyrir aukinn tækjabúnað og vopn. Hreyfingin hefur áætlað, að hún þurfi um 50.000 dollara þegar í stað, til að mæta brýnustu þörfinni. Söfnun til PAC er því alþjóðahyggja í verki.

Baráttan í Azaníu verður löng og blóðug. Hún verður árangursrík svo framarlega að alltaf sé fyrir hendi lágmarksfjárstuðningur og annar stuðningur við hana. PAC leggur upp þá línu, að besta formið á stuðningnum sé ákveðið framlag til alþýðu Azaníu uns sigur er unninn. Nánari útfærslu hugmyndarinnar láta þeir félögum um heim allan eftir. Þetta er gert til þess að reyna að forðast það að sækja hjálp til sömu aðila oftar en einu sinni á ári.

Í samræmi við sögu, eðli og umfang baráttunnar, hefur PAC mótað þessi meginverkefni í baráttunni:

1) Að styðja og efla frelsisbaráttuna á öllum sviðum og stigum, þar til fullur sigur er unninn.
2) Að lina þjáningar hundruð þúsunda fólks, sem líður ólýsandi hörmungar vegna kynþáttakúgunarinnar í Azaníu.
3) Að safna strax sjóði upp á 50.000 dollara til að mæta brýnustu þörfum baráttunnar í Azaníu í dag.
4) Að beita sér fyrir fjárhagslegum skuldbindingum við baráttuna í Azaníu til þess að uppfylla framangreind verkefni.

FULLAN STUÐNING VIÐ PAC!

# Frásagnir þýskra kommúnista: I.grein

## Uppgangstímar fasisma í Þýskalandi

SENDINEFND FRÁ KPD/ML - KOMMÚNISTAFLOKKI ÞÝSKALANDS MARX-LENÍNISTA VAR HÉR Á FERÐ Í SUMAR SEM LEIÐ. FÉLAGAR Í SENDINEFNDINNI SKÝRÐU FRÁ ÞRÓUN STÉTTABARÁTTUNNAR Í VESTUR-ÞÝSKALANDI FRÁ STRÍÐSLOKUM:

Vegna eyðilegginganna í síðari heimstyrjöldinni í Þýskalandi, var þörf mikilla framkvæmda og uppbyggingar á öllum sviðum. Auðherrarnir gátu því aukið framleiðsluna geysilega eftir stríðið. Þeir urðu voldugri en nokkru sinni áður.

Fyrir verkafólki og annarri vinnandi alþýðu predikuðu þeir: "Við (verkafólk og atvinnurekendur) erum öll á sama báti". Þetta er rétt að því leyti að atvinnurekendurnir sátu feitir og saddir við stýrið, á meðan við urðum að róa skútunni áfram í svita okkar andlits.

### "Efnahagskraftaverk" eftirstríðsáranna - spilaborg.

1966-67 skall á vesturþýska einokunarauðmagnið í fyrsta skipti eftir stríðslok, veruleg efnahagskreppa. Goðsögnin um hið svokallaða eilífa "efnahagskraftaverk" ("wirtschaftswunder" var pólitíst slagorð, mikið notað í Þýskalandi eftir stríð, komið frá auðherrunum sem notuðu það í þeim tilgangi að hæla sér fyrir framkvæmdasemina og sem svipu á verkafólk.) rann út í veður og vind. Síðan hefur það sýnt sig æ betur að Vestur-Þýskaland er engin "eyja friðarins" í heimshafi stéttarbaráttunnar.

### Vinnandi alþýða þjappar sér saman.

Hin harðnandi kreppa sem hefur grafið um sig í öllum auðvaldsheiminum, hefur alls ekki undanskilið V-Þýskaland. Gengisfelling, hæg en vaxandi verðbólga, olíukreppa o.s.frv. allt eru þetta sjúkdómseinkenni á efnahagslegri, pólitískri, hernaðarlegri og hugmyndafræðilegri kreppu allsstaðar þar sem auðvaldsskipulagið er við lýði.

Sífellt vaxandi hluti verkalýðsstéttarinnar og bandamanna hennar, er farinn að viðurkenna nauðsynina á baráttu fyrir sínum hagsmunum. 1969 voru allsherjamótmælagöngur gegn t.d. nýju neyðarástandslögunum en þau fela í sér að fangelsa megi fólk án dóms og laga.
Í september sama ár hefst geysileg alda verkfalla í landi okkar, sérstaklega meðal málm- og efnaiðnaðarfólks. Verkföllin halda áfram ár eftir ár og skjóta skelk í bringu auðherrunum með ríkisvald sitt að bakhjalli auk hinnar afturhaldsömu verkalýðsforustu.
Þessi ár hafa borið svip af:
- Mótmælagöngum og herskáum aðgerðum bænda gegn Efnahagsbandalaginu. - Aðgerðum fólks gegn Natóherstöðvum - og æfingum. - Mótmælagöngum gegn leiguhúsnæðis- og lóðabröskurum; og gegn óviðunandi menntunarskilyrðum. - Baráttu háskólastúdenta. - Mótmælagöngum gegn fasískum höfðingjum svo sem Brésnét og Thieu.- Kröfugöngur til stuðnings frelsisbaráttu þjóða heimsins.

Og síðan 1968 eigum við aftur sannan kommúnistaflokk, KPD/ML sem hefur að markmiði að leiða fjöldann áfram til byltingar.

### Auðvaldið herðir kúgunina

Meðan á kreppunni stóð 1975-76 velti einokunarauðvaldið erfiðleikum sínum yfir á herðar vinnandi fólks: Þegar verst lét voru 1,5 milljónir atvinnulausra (næstum 6%) og yfir 0,5 milljónir fengu tilskipun um stytttan vinnutíma. Einnig fylgdi í kjölfarið geysileg aukning vinnuálags og hagræðingar herferðir á vinnustöðum, atvinnurekendum í hag. Að auki skattahækkanir, hækkanir á leiguhúsnæði og hækkanir á öllum tryggingargjöldum. Launin lækka jafnt og þétt meðan verðbólgan eykst.

Þannig hefur verið óslitin alda ógnana auðvaldsins,, ríkisvaldsins og verkalýðsforustunnar á verkalýðsstéttina.

Verkalýðssvikararnir í endurskoðunarflokknum DKP hafa sett fram falskröfur eins og verðstöðvun, með stjórn í fyrirtækjum og kauptryggingu.

### Prentarar hafa að engu ógnanir valdhafa.

Þrátt fyrir allar ógnanir og kúganir hafa geysað prentaraverkföll frá ársbyrjun, eins og eldur í sinu um allt sambandslýðveldið og Vestur-Berlín frá ársbyrjun.

Prentarar hafa lýst vanþóknun sinni á verkalýðsforustunni. Þeir hafa barist með valdi gegn íhlutun lögreglunnar en hún reyndi að brjóta verkföllin á bak aftur með því að neyða til útgáfu.

Þegar verkföllin hófust notuðu prentarar það bragð að setja hvítar eyður á þá staði í prentuðu efni, þar sem áttu að birtast haturs og níðgreinar auðvaldsins gegn málstað prentara.

Prentarar börðust mjög markvisst og eru nú fyrirmynd fyrir verkalýðsstéttina alla.

Framhald verður á grein þessari í næsta blaði og þá segja félagar okkar í KPD/ML frá baráttu flokks síns fyrir sameinuðu, óðháðu, sósíalísku Þýskalandi. Einnig segja þeir frá ofsóknum lögreglu á kommúnista.



Þýsk lögregla ræðst gegn prenturum í verkfalli vorið 1975



Lögreglulið ryður þýskan skóla

# Samningamakk bak við tjöldin

framhald af forsíðu

Menn voru sendir til mælinga á landi og aðstæðum, m.a. á Gásum við Kræklingahlíð (10 km norðan Akureyrar) og var sá staður síðan tilnefndur.
Framsóknarfélagið á Akureyri hélt í vetur opinn fund um málið. Mætti þar Steingrímur Hermannsson frá Framkvæmdastofnun sem "hlutlaus" maður og upplýsti málið frá "öllum hliðum", en Bjarna Einarssyni (þá bæjarstjóri) var teflt fram sem talsmanni og sótti hann málið ákaft og fast. Talaði hann um álver sem fundið fé fyrir norðlendinga "lyftistöng fyri Akureyrarbæ" o.s.frv. Framsókarforystan hafði þarmeð sagt sitt álit.

"Undirbúningsrannsóknir"
Í byrjun september í haust komu tveir menn frá Norsk Hydro til frekara samráðs við íslenska stóriðjufrömuði. Formaður stóriðjunefndar heitir Jóhannes Nordal. Norðmennirnir komu svo norður á Akureyri til að koma af stað "undirbúningsrannsóknum" landbúnaðarvísindamanna. Jón Sigurbjörnsson framkvæmdarstjóri Rannsóknarstofnunar landbúnaðarins hefur lánað út starfsmenn stofnunarinnar til að annast þessar rannsóknir. Jón og einhverjir undirmenn hans eru nú á förum til Noregs til viðræðna og góðgerða hjá Norsk Hydro. Þessar "rannsóknir" sem eru greinilega aðeins formsatriði, til að friða almenning verða heldur ekkert nema nafnið, ef auðherrarnir fá að ráða. Starfsmönnum rannsóknarstofnunarinnar fyrir norðan brá illa við þegar auðhringurinn lagði sjálfur upp í hendur þeim hvernig haga ætti þessum rannsóknum. Svo virðist sem þeir eigi að rannsaka flúormagn (en flúor er hættulegasta efnið sem álverksmiðja spýr út) á svæðinu fyrirfram og, segja hvort meiri flúor sé á bætandi! Það þarf bara að heita rannsókn og niðurstaðan að vera jákvæð.

### Íslenskt lýðræði

Sá sem þetta skrifar fann smáklausu um þetta álversmál í norsku blaði þó nokkru áður en orð heyrðist opinberlega um það á Íslandi. Það vitnar vel um þær laumuaðferðir sem viðhafðar eru. Norskt og íslenskt einokunarauðvald ráða sínum ráðum í laumi á þann veg að gróðinn verði sem allra mestur. Seinna kemur hitt sem algert aukaatriði að spyrja fólk við Eyjafjörð og á Íslandi hvort það óski eftir álverksmiðju og einmitt þarna. Réttara sagt er vandamálið að tryggja það, að almenningsálit hindri ekki framkvæmdina. Lína frá Hrauneyjarfossi (neðan Sigöldu, næsta stórvirkjun) og stystu leið norður í Eyjafjörð mun hafa verið stungin út og mæld í sumar, af Landsvirkjunarmönnum, enda munu framkvæmdir við álverið eiga að byrja eftir 2-3 ár samkvæmt áætlun.
Þetta er borgaralega lýðræðið í hnotskurn: í nógu stórum og mikilvægum málum, s.s. þegar stóriðja er annars vegar (ath. að aðeins álverið í Straumsvík og málmblendiverksmiðjan á Grundartanga munu framleiða mikinn meiri hluta íslenskrar iðnaðarframleiðslu) er almenningur einfaldlega ekki spurður.

### Hvað táknar álverksmiðja við Eyjafjörð?

Þessu verður ekki svarað hér, nema örstutt. Eins og önnur stóriðja þar sem erlend auðfélög hafa undirtökin táknar hún sölu íslenskra landsréttinda. Íslenskt einokunarauðvald býður erlendum auðfélögum ódýra orku til að fá að vera með í framleiðslugróða þeirra og til að vinna sér með því fríðindi í eigin umsvifum erlendis (s.s. ríkisauðvaldið okkar, SÍS o.fl.). Stefna einokunarauðvaldsins og stjórnvalda í atvinnuuppbyggingu sinni mun smám saman grafa gjörsamlega undan efnahagslegu og pólitísku sjálfræði þjóðarinnar.

Álverksmiðja við Eyjafjörð og stóriðjustefna stjórnvalda felur í sér stórfellda byggðaröskun á landsbyggðinni. Fjárfestingar í stóriðn koma óhjákvæmilega niður á smáiðnaði og allri þjónustu og uppbyggingu í smærri plássum landsins. Af Straumsvík að dæma er álver auk þess ekki akkúrat heilsusamlegur vinnustaður eins og það er rekið af auðvaldinu.

Auk þessa er álver flúorspýtandi skaðvaldur í jurta og dýraríki, og því á að planta niður í því blómlega landbúnaðarhéraði sem Eyjafjörður er . Það er háð og spott við íslenskan landbúnað.

Einn mikilvægur þáttur er enn ekki kominn inn í dæmið. Það er vilji fólksins. Íslensk alþýða er ekki stórhrifin af stóriðjustefnu stjórnarinnar. Eyfirskir bændur a.m.k. munu ekki hrópa húrra fyrir þessum nýja nágranna. Og verkalýður á norðurlandi óskar sér einhvers annars til að tryggja atvinnuöryggi en að þurfa kannski að flytja búferlum til að mala gull fyrir erlenda og íslenska heimsvaldasinna. Og verkalýðurinn verður að taka forystu í baráttunni gegn landssölustefnu einokunarauðvaldsins. En þessi fyrirætlun einokunarauðvaldsins verður ekki stöðvuð, nema skipulögð verði fjöldabarátta alþýðu gegn henni. Stofna verður baráttusamtök á samfylkingagrundvelli og mun EIK(m-l) leggja því lið eftir megni.

Norsk Hydro leitar út fyrir landssteinanna m.a. vegna óánægju verkafólks og alþýðu heima fyrir og leitar til Íslands eftir ódýrri orku og ódýru vinnuafli.

Hleypum auðhringunum ekki inn í landið!

ENGA ÁLVERKSMIÐJU VIÐ EYJAFJÖRÐ!

BERJUMST GEGN ALLRI HEIMSVALDAÁSÆLNI!

# MESTI MARX-LENÍNISTI...

framhald af bls. 3

kommúnistanna: Takið upp hugmyndir fjöldans og dragið saman kjarna þeirra, farið síðan til fólksins, haldið fast við hugmyndirnar og framkvæmið þær. Þá mun fjöldinn hlusta á flokkinn og fylgja vegi hans. Til þess að vera kennari, þarf kommúnisti fyrst og fremst að vera góður nemandi.

Þannig leit félagi Mao líka ætíð á hlutverk sitt.

### Stéttabaráttan heldur áfram

Þegar í ljós kom, á miðjum 6. áratugnum, að hinir nýju valdhafar í Sovétríkjunum voru hatrammir endurskoðunarsinnar, sem fyrir fullt og allt höfðu snúið baki við hinum vísindalega sósíalisma, var það fyrst og fremst Mao Tsetung sem leiddi afhjúpun þeirra. Hann sló því föstu, að stéttabaráttan héldi áfram í sósíalismanum. Hann sagði að hinir nýju valdhafar hefðu skilið sig frá fólkinu, hætt að þjóna því, og sett sig ofar því. Þeir væru því kommúnistar í orði en endurskoðunarsinnar í verki. Mao lagði á það mikla áherslu, að hið eina sem gæti komið í veg fyrir slíka atburði, væri að fólkið sjálft væru vel meðvitað um baráttu sína og óhrætt við að gera uppreisn gegn forystu sinni, ef hún hætti að þjóna því.

Í Kína tók Mao sjálfur frumkvæðið að menningarbyltingunni. Hann hvatti fjöldann til að gagnrýna leiðandi aðila í flokknum og embættismannakerfi, sem farnir voru að sýna borgaralegar tilhneigingar. "Gerið harðar atlögur að forystu flokks ykkar", skrifaði Mao árið 1966. Flokkurinn var því í hans augum ekki heilagur hlutur. Ef hann ekki þjónaði fjöldanum, þá varð að breyta pólitík hans. Menningarbyltingin gegnsýrði allt kínverska þjóðfélagið og raunar hafði hún áhrif um heim allan. Hún hafði þær mikilvægu afleiðingar fyrir alþýðuna í Kína, að með henni gat verkalýðsstéttin treyst enn betur tök sín á ríkisvaldinu í samvinnu við fátæka bændur í landinu.

### Þrír heimar

Pólitísk kenning Maos hefur gengt mikilvægu hlutverki í baráttu kúgaðra hvar sem er í heiminum. Hún hefur byggt upp sjálfstraust og þrek kúgaðra og verið þeim leiðarvísir í baráttunni við að steypa kúgurum hvar sem vera skal. Þjóð getur aldrei treyst á hjálp utan frá. Að treysta á eigið afl verður að vera megininntak baráttu í öllum löndum.

Með kenningunni um þrískiptan heim, það er risaveldin í einum hluta, minni auðvaldslönd í öðrum og kúgaðar þjóðir (fyrst og fremst 3. heimurinn) í þeim þriðja, greindi Mao réttilega höfuðandstæðurnar í heiminum á augljósan hátt. Þessi greining hefur sýnt sig vera rétta, á hnignunarskeiði heimsvaldastefnunnar.

Þetta eru í megindráttum sá kjarni í kenningu Maos Tsetungs sem hæst ber. Mao var mesti marx-lenínisti á vorum tímum. Hann hefur fyrir löngu skipað sér á bekk með fyrri frumkvöðlum sósíalismans, Marx, Engels, Lenín og Stalín. En kenning hans lifir og hún verður jafn beitt baráttuvopn eftir sem áður.

Einingarsamtök kommúnista munu heiðra minningu félaga Maos Tsetungs með aukinni baráttu fyrir sósíalisma á Íslandi - gegn endurskoðunarstefnu af öllum gerðum.

Lengi lifi kenning félaga Maos Tsetungs!

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK(m-l)

LAUGAVEGI 178, 2. HÆÐ
POSTHÓLF 5186, REYKJAVÍK
SÍMI 84210 - 35904

Gerist áskrifendur

ÁSKRIFTAVERÐ ER: HEILT ÁR 600 KR. HÁLFT ÁR 300 KR.
LAUSASALA : 100 KR.

Áskrift greiðist á gíró 12200

# Hvar eru 4 milljónirnar, Karl?

## BÍLDUDALUR:

FRYSTIHÚSIÐ HEFUR Í MÖRG ÁR EÐA ÁRATUGI VERIÐ AÐAL ATVINNUTÆKIÐ Á BÍLDUDAL. ÞAÐ VAR LENGI VEL Í EIGU OG REKIÐ AF HREPPSFÉLAGINU.






1958 var keyptur síðutogari til hráefnisöflunar. Síðan gerðist það að frystihúsið fór á hausinn 197o og við það eignast Fiskveiðisjóður fyrirtækið og leigði almenningshlutafélagi allt til vorsins 1975. Haustið 1974 vildi Fiskveiðisjóður selja húsið og bauð það á lágu verði, auk loforða um lánsfjármagn til væntanlegs kaupenda. Um áramótin 1974-75 var stofnað nýtt hlutafélag um rekstur hússins. Helsti áhrifamaður um stofnunina var Sigurður Guðmundsson póst og símsstjóri, og bóndi í Otradal. Hann hefur það líka sér til vafasams ágætis að vera mikill vinur Matthíasar Bjarnasonar sjávarútvegsráðherra. Þetta nýja hlutafélag tekur svo við frystihússrekstrinum haustið 1975, en þá um sumarið hafði Byggðasjóður rekið það.

### Karls þáttur Bjarnasonar

Nýja hlutafélagið réði strax í upphafi framkvæmdastjóra Heitir hann Karl Bjarnason (bróðir hans er fyrrnefndur Matthías ráðherra). Karl B. á litríka sögu sem framkvæmdastjóri. Hann var áður á Vopnafirði, Þórshöfn og Stöðvarfirði og hafði með sér drjúgar fúlgur frá öllum stöðum. Hann fékk, sem framkvæmdastjóri, prókúruumboð fyrir Fiskiðjuna á Bíldudal h/f og allt fjármagn fór í gegn um hans hendur, án þess að neinn gæti fylgst með því. Enda fór svo að dularfull rýrnun á sjóðum fór að gera vart við sig hjá fyrirtækinu. Bílddælingar gerðu nú kröfur til þess að framkvæmdum við frystihússbygginguna yrði hraðað sem mest, enda atvinnuástand afar slæmt. Því var þá lofað, að húsið yrði tilbúið í febrúarlok 1976 og fóru heimamenn þá þegar að hugsa til bátskaupa, til að afla húsinu hráefnis.

### Bátur keyptur

Í apríl s.l. var keyptur bátur af Einari Guðfinnssyni á Bolungarvík, og á hann hafði áður verið ráðin áhöfn. Báturinn hóf veiðar og ísaði aflann um borð. Er skemmst frá því að segja, að Bílddælingar hafa lítils góðs notið af honum síðan, því hann hefur lagt upp allann aflann sinn hjá sínum gamla eiganda í Bolungarvík! Frystihússbyggingin er í líkum sporum nú og hún var s.l. vetur. Karl Mattabróðir sést varla í plássinu enda fór svo að lokum að mælirinn fylltist og heimamenn ráku hann úr starfi. En þá ætlaði allt vitlaust að verða: símskeyti barst frá Byggðasjóði, um að allar "framkvæmdir" á Bíldudal yrðu stöðvaðar ef Karl yrði ekki endurráðinn. Þetta undirritaði Tómas Árnason pólitískur varðhundur Framsóknarflokksins hjá Framkvæmdastofnun. (Auk þess að vera "framkvæmdastjóri" á Bíldudal, er Karl launaður starfsmaður hjá Byggðasjóði!) Heimamenn neyddust til að draga uppsögnina til baka en kröfðust skýringa á hvarfi fjögurra milljóna af hlaupareikningi frystihússins. Þá brá svo við að Karl sagði upp! Sú uppsögn var ekki tekin til greina, enda engin skýring fengin á peningahvarfinu.

### Eftirmáli

Þetta er brot af því sem raunverulega hefur gerst í Bíldudal síðustu missdri. Þessa sögu fást borgaralegu fjölmiðlarnir vitanlega ekki til að birta, en VERKALÝÐSBLAÐIÐ mun birta fleira varðandi þetta mál, og fleiri á Bíldudal, síðar. Það sem við blasir í Bíldudal er einfaldlega það að ef ekki eitthvað gerist í atvinnumálunum nú þegar (þ.e. að frystihúsið komist í gang), þá fara margir íbúarnir að hugsa sér til hreyfings.

# Brottflutningur íbúa blasir við

VERKALÝÐSBLAÐIÐ hefur talsvert skrifað um byggðaröskun á Íslandi. Bíldudalsmálið er enn ein sönnun þess að, það sem EIK(m-l) hefur haldið fram um byggðaeyðingastefnu auðvaldsins og ríkisvalds þess, er rétt í einu og öllu. Ef við lítum á Bíldudalsdæmið í víðara samhengi, þá verður margt ljósara en ella. Atvinnulífið þar er einhæft, byggir á fiskveiðum, frumvinnslu fisks og þjónustu. Uppbygging og eðlileg endurnýjun framleiðslutækjanna er heft með öllum tiltækum ráðum, samanber dæmið um frystihúsið. Hvers vegna? Jú, hin gengdarlausa rányrkjustefna sem viðgengst á fiskstofnum umhverfis landið þýðir ekki annað en það, að snaran herðist og hrunið mikla nálgast óðfluga. Þetta vita auðfurstarnir mæta vel og þeim þykir það harla óarðvænleg fjárfesting að byggja upp fiskvinnsluver á stöðum eins og Bíldudal. Ekki malar frystihúsið gull eftir nokkur ár, ef aðeins fáeinir uggar finnast í hafinu.

Nei, auðfurstarnir eru líka "framsýnni" en svo. Þeir vilja leggja staði eins og Bíldudal í auðn strax og flytja íbúana nær mesta þéttbýlinu. Þar er þeim ætlað vinna í einhverri stóriðju erlendra eða innlendra auðhringa. Þar með erum við komin að kjarna málsins: baráttan gegn eyðingu byggðar er vendilega bundin baráttunni gegn rányrkjustefnu á náttúrunni og auðlindum hennar í sjó og á landi. Þessi barátta þarf því að beinast gegn undirrót alls þessa, auðvaldsskipulaginu sjálfu.

# STJÓRN SLIPPSTÖÐVARINNAR BEYGÐ

Slippstöðin á Akureyri græðir á tá og fingri og hefur stjórn hennar í ákafanum tekið yfir sig af verkefnum (m.a. í Kröflu). Í þeim vanda fann hún um daginn að hægt væri að ná enn meiri vinnu út úr mannskapnum. Stjórnin setti upp og auglýsti nýja skipan næturvinnunnar, þannig að mönnum buðust 5 heilir tímar í næturvinnu, eða þá ekki neitt. Hin nýja skipan fól m.a. í sér fjögurra tíma samfellda vinnulotu í lokin. Þetta nýja kerfi táknaði grófa skerðingu á rétti manna og kjörum og stórt skref afturábak í átt til þrælahalds.

Ef menn eru að slíta sér út við næturvinnu er lágnarkskrafa, að þeir skammti sér tímann sjálfir. Breytingin olli eðlilega óánægju og vélvirkjar allir sem heild og flestir verkamenn gengu fram fyrir skjöldu og höfnuðu allri næturvinnu. Af þeirri ástæðu skapaðist fljótlega neyðarástand fyrir stjórnina. Eftir tvo daga varð hún að bakka með nýja kerfið sitt í heild og skammast sín. Starfsfólkið hins vegar tók aftur upp kæti sína og þakkaði samstöðunni. Atlögum auðvaldsins á kjörin á alltaf að vísa til föðurhúsanna.

# 1/2 MÁN. BLAÐ '77!




Eins og sjá má hér að ofan, er söfnunin til VERKALÝÐSBLAÐSINS þegar komin vel af stað. En betur má ef duga skal! Við skorum á alla velunnara blaðsins að senda inn fé - gíróreikningurinn er nr. 12200.



## Síldarsölu samningar

# Viðskiptaþvinganir sovétmanna staðreynd!

Borgaralegu blöðin skýrðu mjög stuttaralega frá því, að samningar um sölu á saltsíld til Sovétríkjanna "hefðu gengið fremur erfiðlega í ár". Meira að segja Mogginn notaði ekki heimsstyrjaldarletur sitt til að skýra frá þessu.

Þegar farið var að ræða við Sovétmenn um síldarsöluna, þá lýstu þeir því yfir, að þeir hefðu í höndunum tilboð frá 4 framleiðslulöndum saltsíldar um sölu á heilsaltaðri síld af sömu stærðum og með svipuðu fitumagni og Íslendingar byðu á 36-43% lægra verði en endanlega var samið um í Moskvu um heilsaltaða Suðurlandssíld. Íslensku kapítalistarnir þurftu því að snara verðinu niður - minnugir þess að 10 milljarða skuld Íslands við Sovétríkin auðveldaði þeim tæplega samningsaðstöðuna! Til viðbótar þessu, þverneituðu Sovétmenn að kaupa sykur- og kryddsíld, eins og ráð hafði verið fyrir gert.

Á s.l. ári voru gerðir fyrirframsamningar við Sovétmenn um sölu á 20 þúsund tunnum af heilsaltaðri síld, en þar sem síldarsöltun fór langt fram úr áætlun, var hluti umframsaltaður í trausti þess, að Sovétmennirnir myndu fást til að kaupa hann. Vildi íslensku síldarkóngarnir þannig reyna sitt til þess að grynnka á skuldasúpunni við Sovétríkin

En það var ekki tekið út með sældinni, þrátt fyrir að góðkunningi Kremlherra, Einar Olgeirsson, gæfi goðum sínum góð orð í eyru. Sovétmenn kröfðust mikillar verðlækkunar á söluverði umframmagnsins og tók það tvo mánuði að fá þá til þess að kaupa 2/3 hluta viðbótarmagnsins eða 10 þúsund tunnur.

Nú hafa verið gerðir nýir fyrirframsamningar við Sovét um sölu á 60 þúsund tunnum síldar fyrir um 8% hærra verð en áður. Verður nú gaman að fylgjast með framvindu mála, er ekki ólíklegt að Sovétmönnum þyki sem verð olíunnar sem seld er til Íslands sé heldur lágt. Enda er verð olíu þeirrar langt ofan við heimsmarkaðsverð nú þegar!

Segjum svo að Einar Olgeirsson&Co hafi ekki á réttu að standa, þegar þeir segja, að "íslenska auðvaldið sé svo skammsýnt og ráðvillt, að beina ekki stærri hluta íslenskra utanríkisviðskipta inn á þennan trausta sósíalíska markað!"